# ÆFI

# ÞORVALDAR BÖÐVARSSONAR

OG

# RÆÐA

IFIR LÍKJI HANS.





---

**KAUPMANNAHÖFN.**

Prentað hjá J. D. Kvisti, bóka-prentara og nótna.

1837.

# STUTT ÁGRIP

af

## ÆFI ÞORVALDAR BÖÐVARSSONAR,

ritað í Holti undir Eiafjöllum, 1833.

---

Jeg er í heiminn fæddur 21. dag maí-mánaðar 1758, sem þá bar upp á þrenníngar- *(trinitatis-)* sunnudag. Ætt Böðvars Högna-sonar*, föður míns, er kunnugri enn so, að jeg

*) Um Högan prófast Sigurðarson og hans niðja er þessi grein í (*"Ministerial"*-bók = ) prestþjónustu-bók Breiðabólstaðar í Fljótshlíð (sem nær frá 1785 að 1816), rituð með hendi sonarsonar hans, Högna Stefánssonar, prests í Hrepphólum:

"Högni Sigurðar-son var fæddur á Einholti í Horna-firði, 1693, "dag 11. *Augusti*. Faðir hans var sjera Sigurður, prófastur í "Skaptafellssíslu, prestur að Einholti, Högna-son; Guðmunz-"sonar, prests þar; Ólafssonar, prests að Sauðanesi, sálma-skálz, "og firrum skólameistara að Hólum; Guðmunzsonar. Föður-"móðir sjera Högna var Þórunn Sigurðardóttir, prests að Breiða-"bólstað; Einarssonar, prófasts og prests að Eidölum, sálma-"skálz; Sigurðarsonar, prests að Möðruvöllum; Þorsteinssonar. "Móðir hans var Guðrún Böðvarsdóttir, prests nð Valþjófsstað, "hálærz manns, Sturlu-sonar[1] Krákssonar, hálfbróður herra "Guðbranz á Hólum. Krákur var Hallvarzson; enn móðir "þeirra bræðra var Helga Jónsdóttir, lögmanns; Sigmunzsonar. "Móðir Guðrúnar Böðvarsdóttur var Íngjibjörg Einarsdóttir, prests "nð Valþjófsstað. — Högni gjekk í Skálholz skóla 13 vetra, "1706; lá í stóru bólu heima, 1707; dimitteraðist 16 vetra, 1709; "var þá af biskupi Vídalín og sekretjera Árna Magnússini fal-"aður til að undirvísa börnum, enn ljeðist ekkji þar til; var "kallaður til kapeláns af föður sínum 1714. 1717 var hann "kollassíoneraður til Kálfafellsstaðar í Horna-firði af herra Oddi "Sigurðarsini. 1718 gjiptist hann Guðríði, laundóttur Páls íngsta "Ámundasonar í Skógum; Þormóðssonar, lögrjettumanns; Korz-"sonar. Móðir hennar var Vigdís Árnadóttir; Þorsteinssonar,

[1]) Á að vera: Sturlu-sonar; Jónssonar; Krákssonar, o. s. f.

gjeti neínu við hana bætt. Enn Gjiðríður Þorvalzdóttir, móðir mín, var fædd á Flugu-stöðum í Vestrrálptafirði; og fluttist með foreldrum sínum — mig minnir: first að Gjeíthellrum,

"síslumanns og klausturhaldara að Þikkvabæ; Magnússsonar, Árna-"sonar — bænda að Stóra-dal í Eiafirði; Pjeturssonar; Lopzsonar; "Ormssonar; Lopzsonar, ríka. Móðir Vigdísar var Rannveíg "Halldórsdóttir, prests að Kálfufellsstað; Kjetilssonar, prests; "Ólafssonar, súlnaskálz, prests að Sauðanesi. — Sjera Högna og "Guðríðar börn voru 17.

"1. Páll, prestur að Skúmstöðum og síðan Torfa-stöðum í "Túngum; gjiptist Þórdísi Ásmunzdóttur frá Ásgarði. Þeírra "eínbirni: Vigdís — kona sjera Halldórs, Þórðarsonar, frá Hauk-"holtum, kapeláns að Torfastöðum.

"2. Halldór, prestur í Meðallandi; gjiptist Guðríði Vigfúss-"dóttur frá Skál. Þeírra börn: Vigfús — dó í bólu; Kjetill; Guð-"ríður. Var prestur 11 ár; bráðkvaddur milli bæa, í hússvitjan.

"3. Stefán; fjekk Breíðabólstað, 1770, eptir afgáng föður "síns, og þjónaði þar til 1792; bjó síðan 3 ár á Árgjilsstöðum "í Hvolhrepp, og fluttist þaðan að Þíngvöllum, hvar hann deíði. "Kona hans var eín af þeím þremur Guðrúnum, Halldórsdætrum. "Þeírra börn: sjera Högni — varð kapelán sjera Bjarnhjeðins í "Vestmannaeíum; kona sjera Högna var Sigríður Böðvarsdóttir. "Dætur sjera Stefáns voru: Runnveíg, firsta kona sjeru Þorvaldar "Böðvarssonar; og Sigríður, kona sjera Páls Þórlákssonar á "Þíngvöllum.

"4. Böðvar, prestur að Mosfelli í Mosfellssveít, og síðan í "Efriholtum; gjiptist Gjiðríði Þorvalzdóttur. Þeírra börn: Þor-"valdur, kapelán að Breíðabólstað; gjiptist Rannveígu Stefáns-"dóttur, sem dó í bólunni 1785; gjiptist aptur Guðrúnu Eínars-"dóttur, Hafliðasonar; — Guðmundur, kapelán að Utskálum; "gjiptist Rósu Eígilsdóttur; — Sigríður; — Böðvar; drukknaði "í Högnalæk í Holtum, 1779, firir jól.

"5. Þórður, prestur að Refstað, síðan Ási í Fellum, og "seínast í Kjirkjubæ í Túngu; gjiptist Guðníu Gunnlaugsdóttur. "Þeírra börn: Gunnlaugur, kapelán föður síns; Halldór — dó "í bólunni, 1786, þá hann var kominn í Skálholt til vígslu; "og Guðríður.

og síðan að Múla. Á 11. aldurs-ári fjekk hún so hættulegt handar-meín, að hún bar þess menjar til grafarinnar. Var henni þá komið af foreldrum sínum, til græðslu og

"6. Ögmundur, prestur að Hálsi austur, síðan að Skúm-"stöðum, og seínast að Krossi; gjiptist Salvöru Sigurðardóttur "frá Ásgarði. Þeírra börn: Ásmundur; Sæmundur; Sigurður; "Sigríður; Íngjibjörg; Una; Guðríður.

"7. Sigurður, prestur að Ásum; gjiptist Ólöfu Vigfússdóttur "frá Skál. Þeírra börn, sem uppkomust: Halldór — dó í bólunni; "Högni; og Guðríður. Hann vígðist 1755, þá Kötlugjá spjó; "flúði síðan frá Ásum vegna elzins, 1783, og settist að Sólheímum.

"8. Árni, prestur að Reíkjadal, og síðan Steínsholti; gjiptist "Önnu Jónsdóttur frá Bólholti. Þeírra börn: Jón; Halldór; Magn-"ús; Erlindur; Guðrún, firri kona Guðmundar íngra Magnússsonar "í Berjanesi; Ólöf — dó í bólunni; Guðrún. — Var prestur 12 ár.

"Þessum sínum 8 sonum kjenndi sjera Högni sjálfur; með "hvílíkri firirhöfn, firir utan öll önnur embætta og húss-"stjórnar umsvif, kunna skjinsamir nærri gjeta, so fá eður eíngjin "dæmi finnast hjer á landi, að nokkur eínn saman, jafnfátækur, hafi "slíku af stað komið, þar hans firsta brauð var upp á 18 rdd., "annað upp á 30 rdd.; því áður enn hann kom til Breíðabólstaðar, "var mikjið af þessu af lokið.

"Dætur hans voru: 1. Þórunn, hjeraðs-ljósmóðir. 2. Val-"gjerður; ljet fallast; gjiptist síðan Guðbrandi Eiríkssini; dó "barnlaus. 3. Hólmfríður; gjiptist Þorvarði Kristjánssini. 4. "Guðrún eldri. 5. Solveíg; dó 22 ára. 6. Guðrún íngri; ljet "fallast; gjiptist Þórði frá Skálholti. Þeírra börn: Vigdís; "Bjarni; Jón. 7. Guðrún íngsta; dó úr holzveíkji. 8. Vigdís; "dó 11 vetra. 9. Elín; gjiptist Sigmundi Bjarna-sini frá Ási.

"*Anno* 1726 var sjera Högna veítt Stafafell í Lóni af amt-"manni Níels Fúrmann; kom þángað þó ekkji firr enn 1727. "1721 var hann kosinn, og hinn firsti, sem biskup *magister* "Jón Árnason skjikkaði síðan til prófasts að Skaptafellssíslu "allri inn til 1738, og síðan hálfri til 1750, þá hann fjekk "Breíðabólstað. 1748 kallaði hann son sinn Stefán sjer til kap-"eláns, sem filgdi honum síðan að Breíðabólstað. Biskup Har-"bó, í sinni gjeneral-visitássíu, skjipaði honum að íslenzka að "níu Pontoppidans *Catechismum*, og líkaði sú versíón betur

viðgjörða, til föður-móður minnar, Guðríðar Pálsdóttur, að Stafafelli í Lóni, og íleíngdist hún þar síðan; því hún leít út til, að verða bæði gáfuð og frómlunduð, digg og kappsöm í því sem hún átti að gjöra, og kom sjer líka eínka vel við afa minn, og eíns fóstur-móður sína, sem ekkji firrtist því, þó hún vildi ekkji í neínu — hvurkji til munns nje handa — verða eptirbátur dætra hennar, föður-sistra minna. Hún varð það ekkji heldur; og optar mun, í því húsi, fóstur-sistrum hennar hafa verið vísað til digðar hennar og dugnaðar, heldur enn hún þirfti að bera kjinnroða. Enda ætla jeg, hún muni ekkji hafa

---

"enn hin firri, og var prentuð í Kaupmannahöfn ári síðar. Hann "var að sjer í lögum, so dómar hans voru staðfestir á hærri "stöðum innan-lanz og utan; filgjinn sjer að ná með lögum og "rjetti undir kjirkjur þeírra frágjeíngnum eígindómi, hvurs "Kálfafells staðar-kjirkja í Horna-firði ber enn nú menjar; hafði "því hjá sínum ifirvöldum þann vitnisburð, að hann væri sá "maður, sem ekkji ljeti sjer flíka. 1751, þann 25. *Junii*, var hann "dæmdur frá kjól og kalli, af prófastsrjetti hjer að Breíðaból-"stað, firir húsrof á Hriggvelli; enn þann 13. *Julii* sama ár "dæmdur til aptur, af amtmanni Magnúsi Gjísla-sini og biskupi "Ólafi, enn þó í 80 ríkjisdala múlkt til prests-ekkna, og skjildi "biðja sóknina firirgjefníngar. Út af þessu risu ofsóknir og flokka-"drættir miklir í sókninni sama ár, sem — eptir gjeíngjinn dóm "hjer, af prófasti í Árnesssíslu, sjera Jóni Þórðar-sini, eptir jólin "1752 — hjöðnuðu, og urðu nð lokum honum (sjera Högna) til "sóma. 1759 missti hann sjón, so ei mátti lesa á bók; embættaði "þó nokkrum sinnum þar eptir inn til 1762, þá kona hans Guð-"ríður deíði. 1763 svaraði hann út Breíðabólstað í hendur og "ábirgð sonar síns, sjera Stefáns, með skjilmálum, að hafa land-"skuld og leigur af hvurutveggju Sámstöðum sjer til nota, firir "utan sitt uppheldi. 1761 ljet hann biggja kirkjuna af grund-"velli með miklum kostnaði; sjá kirkjubókar *pag.* 34.—59. "Deíði þann 7. *Julii* 1770". —

Orðfærinu á þessari greín vildum við ekkji breíta, þó því sje mikjið ábótavant.

"Útgg."

leínt þær því — þegar so stóð á ræðu — að þær ættu fremur að vera firirmind sín, heldur enn hún þeírra. Það samband líka hjarta-gjæðum þeírra hjóna, afa míns og ömmu, að vísa henni ekkji heím til fátækra foreldra og ómaga-margra, þegar hún var orðin so elsk að þeím. Þegar afi minn fjekk Breíðabólstað í Fljótshlíð, 1750, fluttist móðir mín með því fólkji þángað. Þorvaldur, faðir hennar, sem jeg heiti eptir, var Ófeígsson, Eiólfssonar, — bróðir Árna, sem leíngji bjó á Krossa-landi í Lóni, og Kristínar Ófeígsdóttur á Hnappavöllum í Öræfum, nafnkjenndrar konu, bæði sökum digðar og dugnaðar og frábærrar gjestrisni. Jeg ætla þau sizkjin hafi verið fleíri, þó jeg viti ekkji nöfn þeírra, sakjir ófræði minnar. Enn það veít jeg, að Eiólfur, faðir Ófeígs lángafa míns, var smiður mikjill, og bjó einhvursstaðar í Nesjum, eða að minnsta kosti í sókn sjera Benidikz Jónssonar, sem einhvurntíma kastaði fram þessari stöku, þegar hann kom á heímili hans, og var að spirja að hússbóndanum:

Vilji nokkur fá þinn fund,
og frjetti þinnar iðju —
allir svara á eína lund:
"Eiólfur í smiðju".

Þetta var Eíólfur, faðir Ófeígs og sizkjina hans. Kona Þorvaldar afa míns hjet Þorbjörg Sigmundardóttir, ættuð ofan af Breíðdal. Jeg heírði móður mína rekja ætt hennar til sjera Höskuldar Einarssonar, Sigurðarsonar, í Heídölum; enn man ekkjert af því samstætt, og þori ekkji með það að fara. Mikjill fjöldi af frændfólkji mínu er nálega á hvurjum bæ, þegar kjemur austur ifir Skeiðarársand — um Öræfi, Suðursveít, Mírar, Nes, Lón; sem jeg hefi með sannindum frjett, síðan jeg híngað kom. Þorbjörg amma mín komst hjer suður á land, og andaðist á Mosfelli hjá foreldrum mínum. Þá mun jeg hafa verið á 3. árinu, og er eíns og mig ránkji eítthvað við henni; og opt var mjer svarað um, hvurnig mjer

varð við, þegar jeg frjetti látið hennar ("hún hættir þá að æa").

1753 vígðist faðir minn til Mosfells í Mosfellssveit. Ætla jeg hann væri þar firsta veturinn búlaus, til húsa hjá Helga heitnum, er síðar bjó leingji á Suðurreikjum þar í sveit, Oddssini, bróður þeirra Oddssona, Jóns í Varmadal og Jóns í Laugarnesi. Enn árið eptir, 1754, kom faðir minn til föður síns, til að þiggja ráð hans og stirk til búskapar, sem þá fór í hönd. Ætla jeg hann biði þá föður mínum til bústíru hvurja sistra hans, sem hann kjósa vildi; enn hinn mæltist til, að fá heldur Gjiðriði; mun honum hafa litist hún efnileg og dugleg í því sem hún kunni. Það varð; hún var honum ljeð, og var hjá honum ógjipt þau missiri; enn árið eptir, 1755, tóku þau saman. Á undan mjer áttu þau eína stúlku, Kristínu nefnda, sem varla varð viku-gömul. Firsta árið, sem jeg lifði, var jeg í fóstri hjá ljósu minni, Margrjetu Bjarnadóttur, sistur Skjildínganessbræðra, Þorbjarnar og Halldórs, enn konu Þorkjels Þórðar-sonar í Þerneí, lögrjettumanns, afa madömunnar á Elliðavatni, og föður Lopz Þorkjelssonar á Hofi. — Mælt heírði jeg, að snemma hefði krakkjinn ekkji þótt ólíklegur til að verða ekkji mjög óskjír; og nógu vel hafi mjer gjeíngjið að læra að lesa á bók og nema það sem firir mjer var haft. Pontoppídans *Catechismum* lærði jeg á 6. árinu, á skrifað kver, sem var með hendi föður míns á firsta partinum, enn síðan tvær arkjir með hendi Páls heítins djákna á Gufu-nesi, Sveínssonar, og þá kom aptur hönd föður míns á öptustu örkunum; þar stóðu þessar línur með hendi hans, neðan til á öptustu bladsíðunni: "*Sexennis XXII hebdomádis ad verbum didicit possessor*". Mart var jeg á þeím árum látinn læra, sem ekkji tjáir nöfnum að nefna, t. a. m. formálann firir *Rambachs Monita catech.;* 119. sálminn í Saungsaltara sjera Jóns Þorsteínssonar, píslarvotts, með þessu lagi: "Oss lát þinn

anda stirkja"; og mart fleira, sem jeg er öldúngjis búinn að gleima. Þetta gjekk greitt; enda mun tilsögnin hafa verið einhvur hin bezta, sem auðið er að fá, þar sem móðir mín var. Á 8. ári mun jeg hafa lært hin latínsku *paradigmata* (þ. e. firirmindir hinna latínsku breitínga, eda sínishorn þeirra), og varð á 9. árinu sæmilega liðugur að "deklínera, komparera, konjúgjera", sem þá var kallað, og mjer þótti skrítin íþrótt, sem mig ránkar við, jeg hafði stundum gaman af að brúka við íslenzkuna okkar, og sagði t. a. m. "*vakrior*, *vakerrimus*", þegar jeg var að tala um hesta. 1768, þegar jeg var 10 vetra, var mjer komið í kjennslu til sjera Þorleifs Bjarna-sonar, prófasts í Reikholti; og naut jeg síðan hans tilsagnar 11. og 12. æfl-árið. Firsti veturinn gjekk mestallur til að læra að skrifa, sem lítið var birjað og með litlu lagi. Seinasta veturinn var jeg farinn að lesa eitthvað lítið í *Cornelio*, og slampaðist stundum á, að gjöra so stíl, að ekkji voru málvillur í. Þá fór faðir minn að sækja um skóla handa mjer; enn jeg þótti of úngur, og var ekkji fermdur. 13. aldurs-ár mitt, 1771, var jeg því heima hjá föður mínum. Hann vandi mig vel á að "deklínera", o. s. f., og kjenndi mjer grísku, sem hann var furðu góður í, og gantaði mig til að fara að bera við að gjöra látínsk vers undir ímsum (*metris* =) bragarháttum, er hann vissi undra góð skjil á — so jeg orkti þá með þessu móti mikjið rusl þann vetur, einkum bísna kafla af Tíma-rímu, sem jeg er öldúngjis búinn að tína; og tel jeg það ekkji með skaða mínum. Þetta varð samt til þess, að faðir minn hafði heldur gaman af mjer, og jeg tíndi ekkji niður. Árið eptir, 1772, var jeg fermdur um haustið, á Torfa-stöðum í Biskups-túngum, af sjera Páli Högna-sini, föður-bróður mínum; og var first til altaris í Hruna, með sjera Jóni Finnssini. Föður-bróðir minn var prestur hans. Síðan komst jeg í skólann, og settist þar *sextus a supremo* (þ. e. sjötti að ofan) í

neðra bekk, og hjelt jeg þeim *loco* (þ. e. því sæti) mína tíð umbreítíngarlaust. Flestar skólaiðkanir urðu mjer auðveldar; því jeg átti tilsögn föður míns að þakka, að það sem öðrum varð örðugast í gríska testamentinu — að þekkja *radices* (þ. e. rætur) og *tempora* (þ. e. tíðir sagna) — það varð mjer auðvelt. Að *logica* (þ. e. hugsunar-fræði) þótti mjer mikjið gaman. Guðmundur, *consessor* (þ. e. samsetl=sessu-nautur) minn, er síðar varð prestur á Lamba-stöðum, las hana saman við mig, og við spurðum hvur annann úr henni. Við lásum líka saman *Flori Historiam Romanam* (þ. e. Rómverjasögu "Flórusar"), sem er bæði skrítin og skáldleg, enn sumstaðar nokkuð mirk, af því höfundurinn gjörir sjer of mikjið far um, að vera stuttorður. Við höfðum mikjið gaman af sjervizku hans og orðheppni sumstaðar.

Um vorið 1774 var jeg útskrifaður úr skólanum, 16 vetra gamall, og veik árið eptir, 1775, með foreldrum mínum frá Mosfelli að Marteíns-túngu í Holtum; því faðir minn hafði þá brauða-skjipti við sjera Jón Hannesson. Árið þar eptir, 1776, flutti hann sig að Guttormshaga, ljens-jörðu prestsins. Þessi ár var jeg vinnudreíngur hjá foreldrum mínum, þángað til faðir minn andaðist 6. dag janúars 1789. Þá varð jeg firirvinna móður minnar þau 2 ár, sem hún hjelt þar við bú, eptir dauða föður míns; því sjera Ólafur Eiríksson, sem brauðið fjekk, var firstu árin á fæði hjá henni. 1781 fluttist móðir mín, með okkur börnum sínum öllum þremur, frá Guttormshaga að Breiðabólstað, til sjera Stefáns, föðurbróður míns. Varð búi hans mikjill stirkur og viðrjetting að komu móður minnar — og enda okkar bræðra; því við vorum verkmenn ekkji í lakara lagi. Jeg hafði áður verið tvennar jóla-*ferias* í orðlofi minn hjá sjera Stefáni, og hafði hann þá firstur manna leitt mig á veg til að skjilja þízku. Enn nú var mjer so farið fram, með mikjilli firirhöfn

hvunær sem jeg komst höndum undir, að hvur var öðrum í þízkunni viðlíka mikjið til liðs. Hann var mjer í öllu eíns og faðir, og eínhvur áreíðanlegasta firirminð í guðsótta og ráðvendni, ekkji sízt firir mig, sem var honum handgjeíngjinn flestum fremur. 1783 kallaði hann mig sjer til kapeláns (= aðstoðarmanns); og var jeg vígður annann sunnudag eptir þrettánda — ásamt sjera Helga Bjarna-sini, sem vígður var til föður síns, meístara Bjarna í Gaulverjabæ, komst að Reínivöllum í Kjós og sálaðist þar. Árið áður, 1782, gjipti hann mjer Rannveígu dóttur sína. Með henni varð mjer þriggja barna auðið. Hið firsta og þriðja sáu aldreí ljós þessa heíms. Enn annað barnið, sem mig minnir heldur hjeti Böðvar, enn Stefán, varð ekkji fullrar viku gamalt. Þriðja barnið var lagt í kjistu móður sinnar, á brjóst henni. Hún andaðist, eptir grátlega þjáníngu í bólunni, 28. dag desembers 1785, og var jörðuð 4. d. janúars 1786. Þetta var firsta hjónabandið mitt, þriggja ára lángt. Í því átti jeg ekkji fáar ángurstundir innan um ótal fleíri glaðar. Mikjið lángaði mig þann vetur til að fá að skjilja við með bólufólkjinn. Nokkrir voru meðal þess miklu eldri enn jeg, og þjáðust leíngji sumir, enn sumir dóu. Eínkum man jeg enn þá til 13. dags janúars-mánaðar, þegar jeg á eínum deígi kom til fjörutigi bólu-sjukra, og vildi hafa firir þeím þær fortölur og hugleiðíngar, sem jeg ásetti að skjilja sjálfur við með, þar sem jeg taldi mig sjálfsagðann í þeirra hóp. Sumir af þeím feíngu apturbata, margjir dóu, enn jeg kjenndi mjer eínskjis meíns. Þó hefi jeg, ef til vill, aldreí verið jafn-vel búinn við dauða mínum, eíns og jeg þá, að minnsta kosti — þóttist vera; enn það er mjer að kjenna. Enn til að sanna, að jeg hafi ekkji verið öldúngjis aflhuga heími þessum, þó mjer þætti so vera, munu margjir, sem lesa sögu mína, álíta það fullgjilda ástæðu, að þegar leíð út á sama veturinn, fór jeg, þó ekkji án ráðs náúnga minna, sem jeg gjet

með sanni sagt, mjer til afsökunar, að biðla til jómfrúr Guðrúnar Eínarsdóttur, sem þá var bústíra á Móeiðarhvoli; því Þorsteinn síslumaður skjildi við sumarið áður. Þetta gjekk að óskum — hefði hugarfar mitt verið eíns hreinskjilið, eíns og hennar, sem var so vönduð og góð; enn það var sem ábrast; jeg var, mjer til skammar, í þessu *intervallo* (þ. e. millibili), þó skammt væri, orðinn flæktur í óleífilegann kunníngsskap, við vinnu-stúlku mína, Margrjetu Arnoldsdóttur, sem mjer var, og hafði allt af verið, innilega gjeðþekk; og þó að jeg vorið eptir, 16. dag júní-mánaðar, gjiptist reglulega Guðrúnu Eínarsdóttur, hafði jeg þó ekkji þá stjórn á sjálfum mjer, að jeg firir það gjæti gjefið frá mjer mínar stolnu ástir. Sagan er ekkji falleg; enn eíngjinn gjetur sannara frá henni sagt enn sjálfur jeg. Árið eptir, 1787, fæddist okkur hjónum firsta barnið, Böðvar, 16. dag júní-mánaðar, sama daginn, sem við komum saman árinu áður. Enn 14. dag septembers um haustið ól Margrjet son, sem var látinn heita Guðmundur. Að faðerni hans var ekkji spurt, því jeg skjírði hann sjálfur; og lá það í þagnargjildi — fremur vegna gremju minnar, sem heldur var ert upp af óblíðri meðferð, heldur enn af því það væri ásetníngur minn, að gjöra hann föðurlausann — þángað til mjer var stefnt, eptir skjipun Hannesar biskups, firir prófastsrjett sjera Páls Sigurðar-sonar, 9. dag apríls-mánaðar veturinn eptir, 1788. Þar játaði jeg opinberlega það, sem jeg aldreí hafði firir þrætt, að Guðmundur væri minn sonur. Var jeg af þessum rjetti dæmdur frá prestlegum verðugleíkum, eíns og sjálfsagt var; og var sjera Runólfur á Stórólfshvoli, ástvinur minn, sækjandi þessa máls. Allt það sem við þetta var gjört af rjettarins hálfu var so blítt og mannúðlegt, sem orðið gat, og mjög óáþekkt umgángs-máta mjer náteíngdari. Eíngum vil jeg óska, að þurfa að bera það, sem jeg um þessa tíma, firr og seínna, tók út með sjálfum mjer.

Guðmundur fór með móður sinni undir eins um haustið að Árgjilsstöðum í Hvolhrepp, og var þar um veturinn. Enn um vorið tóku hjónin í Akurei í Itri Landeíum, Jón Hjörzson og Anna Þorleífsdóttir, dreíngjinn af mjer til fósturs; og ólst hann síðan upp og mannaðist hjá þeím. Enn í stað þess var Hjörtur, sonur þeírra, sem nú er prestur á Gjilsbakka, hjá mjer á vetrum, og lærði hjá mjer allann skóla-lærðóm, þángað til hann var með heiðri útskrifaður af Gjísla Thorlacius, *Rector*, 1794. Hann útskrifaði líka undan minni hendi Hjörleíf Þorsteínsson, mikjið vel gáfaðann pilt, er síðan varð prestur að Dverga-steíni í Borgar-firði í Múla-síslu, son sjera Þorsteins Stefánssonar á Krossi, sem sjera Stefán, föðurbróðir minn, hafði ljeð mig til aðstoðar í embætti seínasta árið, sem hann lifði, 1784 og 1785; og annann frænda minn, Högna Stefánsson, sem nú er prestur að Hrepphólum, — so að þeír feðgar, sjera Högni og Jón sonur hans, sem nú er kapelán hjá föður sínum, hlutu báðir dímissíon frá minni hendi. Þessi ár — jeg man ekkji glöggt, hvur af þeím — var líka hjá mjer til kjennslu Halldór, sonur Ámunda sniðkara, mikjið vel gáfaður piltur, sem tveímur árum eptir vist sína hjá mjer var útskrifaður úr Reíkjavíkur-skóla, og er nú prófastur í Húnavatnssíslu og prestur að Melstað. Líka var einn vetur hjá mjer, til að læra að lesa og skrifa og kristindóminn sinn, Tómas Sigurðar-son, síslumanns í Vestmannaeíum, sem jeg vegna uppheldisleísis og afræktra gáfna áleit heldur enn ekkji ófallinn til bóknáms; þó lærði hann, og er nú prestur í Garpsdal í Barða-strandarsíslu. Sömuleíðis kjenndi jeg þá líka undir skóla Stefáni, sini Ólafs gullsmiðs í Selkoti hjer undir Eiafjöllum, ekkji ólaglega gáfuðum með sumt lag, enn þó nokkuð undarlega. Hann var hjá mjer 2 vetur; fjekk síðan skóla og var útskrifaður eptir 2 heldur enn 3 vetur. Hann hefir, síðan faðir hans andaðist, búið eins og bóndi á föður-

leifð sinni, og ekkji feíngjið brauð, þó nokkrum sinnum hafi þess á leit farið. — Heíma á Breíðabólstað var jeg ekkji nema árið 1781; enn frá því 1782 og þángað til 1792 bjó jeg á Flóka-stöðum, firsta árið hálfum, enn síðan allri jörðunni, og hafði hana leígu-laust; naut jeg þess í því, að jeg hafði kjennt Högna frænda mínum; og sínir það góðvild föðurbróður míns, er jafnan var sjálfri sjer lík í þeím efnum. — Ekkji gjet jeg látið óáminnst, hvursu mjög embættisbræður mínir í Rángárþíngji, og víðar, fórust á mis í viðkjinníngu við mig um þessar mundir. Jeg man til þess, af því að firirlitníng mun vera tilfinnanleg gjeðraun, ekkji sízt, þegar einhvur hefir af sjálfs-völdum bakað sjer hana. Man jeg enn — og mun aldreí gleíma því staka ljúflindi, sem sjera Gísli prófastur Þórarinsson einhvurntíma auðsíndi mjer í fjölmenni, og gjörði með því kjinnroða öðrum nærstöddum. Bæði þau góðu hjón voru mjer ástúðleg fremur flestum þar í síslu, og ljetu hvurn sjá, sem vit hafði á, að þau lögðu eínga firirlitníng á mig. Í þesshláttar kríngumstæðum kjemur hvur til dira, eíns og hann er klæddur; það kjenndi reínslan mjer þá.

Firir tillögur fornteíngdabróður míns, sjera Páls Þorlákssonar á Þíngvöllum, var jeg, 1792, settur skólahaldari við *Thorkillii* barna-skóla, sem stofnaður var á Hausa-stöðum í Garðahverfi; og fluttist þángað um vorið frá Flóka-stöðum, eptir 10 ára þarveru, með þremur börnum okkar: Böðvari, Gjiðríði og Kristínu; enn Rannveíg, dóttir okkar, varð eptir hjá móður minni og föðurbróður mínum á Árgjilsstöðum í Hvollhrepp. Þetta embætti, sem mjer var í hendur feíngjið af Ólafi stiptamtmanni, var bæði örðugt og launa-lítið, og þurfti mikjið fólkshald, í tómu húsi, að kalla mátti — því ekkji urðu hafðar fleíri enn fjórar kjír; skólabörnin í firstunni tólf — segs dreíngjir og segs stúlkur, enn síðan fjórum vidbætt, so þau urðu segstán; laun okkar beggja saman-talin segstíu

rdd., og **segstán** rdd. með hvurju barnanna jafnt — **átján** rdd. með dreíng, enn **fjórtán** með stúlku; þetta borgað í bankóseðlum, er þá gjeíngu ifir landið. Við þessi kjör hefðum við með eíngu móti komist af, hefði jeg ekkji bráðum farið að njóta stirks af góðum mönnum, sem komu til mín piltum til tilsagnar, sem allt af fór von betur úr hendi; því nú fór jeg líka af meíra kappi enn áður að stunda bóknám, eínkum *Filologí* og heímsspekji, og las töluvert mjer til framfara í þeím vísindagreínum; því góðir menn, eínkum sjera Markús, stiptprófastur, Gjeír biskup Vídalín, Sigurður síslu-maður Pjetursson, assessor Gröndal, og Jón Sveínsson, landlæknir og aðrir fleíri, voru mjög fúsir, að ljá mjer bækur, og leíða mig á veg. Auk Böðvars sonar míns og Hjartar frá Akureí, hafði jeg til kjennslu, þegar liðinn var firsti vetur minn á Hausastöðum: Jens bróður lektors Jóhnsens, Bjarna Vigfússon, og Halldór Bjarnason, sem allir voru útskrifaðir undir eíns. Tveír hinir firri sigldu, og feíngu góðann orztír; með því annar þeírra (Bjarni, sem nú* er jústizráð og assessor i lanzifirrjettinum) hafði fljúgandi gáfur. Halldór sigldi á *Blågårds Seminarium*, og varð skólahaldari við Friðrikshald í Noreígi. Páll, klausturhaldari á Elliðavatni, kom til mín föstur-sini sínum, Ótta, sini Guðmundar í Skjildínga-nesi — og sjera Þorsteínn á Hesti Gunnari sini sínum. Af kunníngskap við feður og föstur-feður þessara og fleíri pilta, hafði jeg mart hagræði, sem mikjið stirkti mig til að komast af, þó allt af veítti það ervitt. Opt var á orði haft að biðja mjer uppreísnar. Enn eínhvur sat so í þeím dirum, að aldreí varð því framgjeíngt — jafnvel þó stiptprófastur legði hug á það — firr enn 1802, að etazráð og assessor Ísleifur Eínarsson ritaði bæn-

---

*) 1833, þegar þetta var ritað. "Útgg."

ar-skrá og sendi sjálfur, um sömu mundir, og kammerráð Bendike var hjer í landi, og Ólafi stiptamtmanni var í náð frávikjið. Vorið eptir kom bænheirsla um uppreísn, dagsett 3. dag júní-mán., 1803. Konu minni veittist sú gleði, að sjá mig aptur, eptir 16 ár, kominn í mína firri stjett; líka lángaði hana til, ekkji síður enn mig, að losast við mæðusama fjölskjildu, er lagðist þúngt á bæði okkur, og þó enn þíngra á hana, og búin var mjög að slíta kröptum hennar og heílsu; því það sem bóklestri viðvjek, var mjer hinn mesti ljettir að aðstoð móður minnar. Hún hafði farið til mín frá Árgjilsstöðum, þegar sjera Stefán, föðurbróðir minn, flutti sig að Þíngvöllum — sem mig minnir væri 1796 eða 1797. Enn guð hafði ætlað konu minni aðra varanlegri gleði og endurnæríngu; því haustið eptir lagðist hún í þúngri landfarsótt með brjóstveíkji; og þó henni væri lækninga leítað, kom það firir alls ekkji, og andaðist hún sama haust á 6. deigi desembers-mánaðar.

Þannig var jeg sviptur trúfastri og hollri aðstoð, sem jeg hafði notið í 18 ár; og stóð nú uppi á Hausastöðum með fjórum börnum, og móður minni, sem þá var mjög hnigin að kröptum, og 16 skóla-börnum, vafinn töluverðum kaupstaðarskuldum; og sá, mjer var öldúngis ófært, að bjargast við það framveígis. Þessvegna fór jeg að bera mig betur fram við ifirvöldin, að fá eítthvurt brauð; því hægt var að sína, mjer væri naumlega líft, þar sem jeg var. Vitnisburð stiptprófasts míns hlaut jeg so vinveíttann, sem orðið gat. Hann var dagsettur 3. dag nóvembers 1803; og á jeg enn uppskrift af honum. Þessi viðleítni mín gjekk nú, eíns og vant er að vera, nokkuð ervitt þenna vetur. Þó varð það út úr, eptir ímsa viðleítni aðra, að — þegar Benidikt prófastur Árnason sagði af sjer Reinivöllum sama veturinn, og honum var lausn veítt 9. dag apríls um vorið 1804: varð það tilefni til, að Gjeír biskup Vídalín setti mig, 9.

dag maí-mán. 1804, til að þjóna *ad interim* Reínivöllum í Kjós, og taka þar við stað og kjirkju. Síðan var mjer það brauð reglulega veítt, 3. dag desembers um haustið, af herra Ísleífi Eínarssini, sem þá var settur stiptamtmaður og amtmaður í suður-amtinu. Eptir þessum úrskurði biskupsins, fluttist jeg frá Hausastöðum, vorið 1804, nálægt fardögum, þegar jeg var búinn að selja það sem jeg gat án verið, til að borga skuldir mínar. Þjónaði jeg þar, eptir þeím úrskurði, mestann part þess árs; því veítíngar-brjef mitt var ekkji birt, firr enn árið eptir (1805) í páskaviku — að sjera Hjörtur á Gjilsbakka birti það í prófasts stað; því hann var þá hjá okkur um hátíðirnar. — Jeg flutti mig að Reínivöllum með móður minni og fjórum börnum: Böðvari, 18 vetra; Rannveígu, 16 vetra; Gjiðriði, 13 vetra; og Kristínu 10 vetra. Eínu dóttur minni, Sigríði, sem var eitthvurt efnilegasta barn, höfðum við sjeð á bak, foreldrar hennar, hjer um bil tveím árum áður, ekkji fjögra ára gamalli — í barnskjæðri landfarsótt, sem þá gjekk ifir. Kjósarmenn tóku mjer einka vel, og sóktu mig sjálfir á flutníngsskjipi, með varnaði mínum, skömmu eptir fardaga um vorið (1804); lögðu þeír til ókjeípis þjónustu sína, so jeg þurfti ekkji að borga, nema skjipleíguna. Þetta sama sumar, 20. dag júlí-mánaðar, gjiptist jeg að Nesi við Seltjörn minni elskulegu konu er síðan hefir verið mjer til indis og aðstoðar — dóttur sjera Bjarnar prests Jónssonar í Bólstaðarhlíð. Hún hafði í 7 ár verið þjónustustúlka hjá herra assessor Gröndal, og frú Þuríði Ólafsdóttur, móður-sistur sinni. — Eptir firsta árið mitt á Reínivöllum (1805) var Böðvar sonur minn útskrifaður úr Bessastaða-skóla með heíðarlegasta vitnisburði af *lector theologiae*, sem þá var, enn nú er biskup ifir Íslandi, herra Steíngrími Jónssini; og fór hann um haustið eptir vistferlum til herra St. Stephensens, amtmanns í vesturamtinu. Hjá honum dvaldist hann til þess 1811. — 1808

fór Rannveíg dóttir mín til teíngda-foreldra minna norður að Bólstaðarhlíð, í kvenna-skjlptum firir teíngda-sistur mína, Þóru Bjarnardóttur, sem var hjá okkur í 2 ár. Enn Rannveíg fór síðan, eptir eítt ár eða tvö, að Flugumíri í Skagafirði, og gjiptist þaðan 1811 Jóni bónda Jónssini á Framnesi; þar hafa þau búið síðan. — Gjiðríður fór vistferlum að Hvanneíri til herra Stephensens amtmanns, og íleíngdist þar. — Kristínu dóttur mína vistuðum við frá okkur til Páls Jónssonar á Gufu-nesi, klausturhaldara. Þaðan komst hún að Eivindarhólum, eptir ráðstöfun húss-bónda síns, og gjiptist fám árum síðar sjera Páli Ólafssini, Pálssonar. Voru honum veíttir Ásar í Skaptár-túngu hjer um bil 1812.

1808 fjell skriða mikjil á Reínivelli og tók af mestann hluta túnanna. Þá kom mjer til hugar, með ráði vina minna, að beíðast, að Valdastaðir — eín af Kjósarjörðunum, sem kallaðar eru, og konúngur á — væru lagðir undir Reínivelli, til uppbótar brauð-inn. Ifirmenn mínir, prófastur, biskup og stiptamt-maður, mæltu sem ákjósanlegast fram með þessu bæn-arbrjefi. Enn þegar kom til umboðs-manns þessara jarða, Magnúsar Stephensens, konferenzráðs: þá vildi hann ekkji missa þann hag, sem hann hafði á umboði Valdastaða — so þetta áform mitt varð að eíngu. Við þetta firrtist jeg; því sinir þeírra bræðra höfðu líka verið til kjennslu hjá mjer veturinn áður; og hugði jeg sízt, að slíkur höfðíngji mundi láta sig draga annað eíns lítil-ræði; og hætti jeg þá að una á Reínivöllum, er jeg sá mig so undir fótum troðinn. 1810 andaðist sjera Jón prófastur Ásgjeírsson á Holti í Önundarfirdi. Datt mjer þá í hug, að sækja um það brauð; og stirkti mig í því áformi laungun Böðvars sonar míns, að komast til prest-skapar. Þetta brauð var mjer veítt 1810, og gjörði jeg þá þegar Böðvar son minn að kapelán mínum. Hann vígðist um vorið 1811, undir eíns og herra Steíngrímur

Jónsson að Odda. 1811 veik jeg frá Reíuivöllum með 5 hörnum okkar, er þar voru fædd: Birni, Ólafi, Íngjihjörgu, Stefáni, Guðrúnu; og komum vestur að Holti 3. dag júli-mán. 1811, og höfðum átt örðuga ferð, enn þó slisalausa. Tveim vetrum síðar (1813) gjiptist sjera Böðvar Þóru Bjarnardóttur, teíngda-sistur minni; og hefir þeím orðið margra harna auðið.

---

Leingra var ekkji komið æfisögunni, þegar höfundur hennar skjildi við; og verður nú fáeinu viðbætt, til aukníngar því sem hjer er sagt að framan, og framhalz frásögunnar. Hinn framliðni var ekkji algjörlega búinn að gánga frá ágripi þessu; og má vera, orðfærinn sumstaðar sje firir þá sök nokkuð ábótavant; hafa þó "útgjefendurnir" ráðist í að breíta einstöku orðatiltækjum, er þeím virtust fara miður vel í íslenzkum bókum — og þó mjög sjaldan; því þeír vildu ekkji með umbreítíngunni vekja grun um, að þeír hefðu þeím kostum spillt, er ágrip þau, er menn taka saman sjálfir um æfi sína, hafa um fram frásögur annarra; er það first, að þar þarf sízt að gjöra ráð firir, að sannleíkanum sje hallað af þekkjíngarskorti; því næst, að þær eru til minnis um lag þeírra og kunnáttu, sem þær sömdu; og, að síðustu, lísa þær betur og áreíðanlegar, enn flest annað, háttum þeírra og hugarfari, er þær eru gjörðar um; og til þess eíga æfisögurnar einkanlega að miða. Má það og að vísu framanskrifuðu ágripi til gjildis telja, að það lísir höfundi sínum betur enn nokkur önnur frásögn. Viljum við því til viðauka að eins gjeta hinna helztu atriða æfi hans upp frá því ágripinu líkur, og síðan stuttlega seígja frá honum sjálfum og börnum hans, ritum hans og siðum.

Þegar sjera Þorvaldur fluttist vestur, voru 5 börn hans í för með honum, eins og áður er sagt; og var

hið elzta þeírra á 6. árinu. Þar bættust honum 8 börn að auk, so það má nærri gjeta — með so þúngri ómegð — að hann hafi átt fullervítt uppdráttar meðan hann var firir vestan, því heldur sem hann kom þángað tómhendtur af flestu, sem þurfti til að stofna þar búskap. Líka vildi honum það óhapp til, að ímsir fjemunir, og þar á meðal bækur hans allar, er hann sendi að sunnan með fiskjiduggu, tíndust gjörsamlega; því til skjipsins spurðist aldreí framar. Samt reíndi hann ekkji mjög mikjinn skort, meðan hann dvaldist að Holti í Önundarfirði; enda lagði hann mjög að sjer erviði á þeím árum, og varð honum lítill tími afgángs til bókiðna sinna, með því hann líka, þegar upp á leið vorið 1817, var kjörinn til prófasts í vestra hluta Ísafjarðar-síslu, og hafði hann það embætti á hendi þar til 1822, að hann aptur fluttist suður; ekkji hafði hann heldur únglínga til kjennslu meðan hann var firir vestan. Þó honum sona vegnaði þar allvel, og hann indi sæmilega hag sínum, eptir sem gjöra var, mun hann samt allt af hafa þráð suðurland og eínkanlega viljað komast hjá, að kona hans irði eínstæðíngur — á þessum útkjálka, með 12 börnum úngum — ef að hans missti við. Þetta gjekk honum til að sækja um Mela og Leírá í Borgarfirði, sem þó er miklu lakara enn Holt; og fór hann þángað búferlum vorið 1822. Mela-staður var so niðurníddur, þegar hann tók við honum, að hann varð að taka hann allaun á næsta ári. Hinn mikli kostnaður, sem þar af leíddi, fjölskjilda hans, og það, að þá stóð á kjennslu þriggja sona hans: Björns, Ólafs og Stefáns, gjörði það að verkum, að vart munu kríngumstæður hans í annann tíma hafa verið erviðari, enn meðan hann var á Melum. Auðsíndu þó höfðíngshjónin á Leírá, Jónas "Scheving", síslumaður og "kanselíráð", og frú Ragnheíður Ólafsdóttir, honum ærnar velgjörðir og góðvild, einkum meðan frúin var á lífi. Þó þannig væri varið búhag hans, og hann sjálfur væri

hlaðinn slíkri ómegð, tók hann til kjennslu firir alls ekkjert dóttурson sinn Ólaf Pálsson, prests að Guttormshaga (er ásamt Þórarni síslumanni "Øfjord" drukknaði í jökulkvíslinni á Mírdalssandi 1823, um haustið), og var Ólafur hjá honum 4 næstu árin, þar til honum var veíttur skóli; og síðasta veturinn á Melum tók hann líka til kjennslu, firir alls aunga meðgjöf, Jón Guðmunzson, gáfaðann únglíngspilt úr Reíkjavík, sem hann hafði kjennt áður, meðgjafarlítið, 2 vetur undir skóla; þángað hafði hann komist, enn verið aptur burtu vísað, sökum veikjinda. Af þessari góðsemi sjera Þorvaldar leíddi það, að honum var veíttur skólinn í annað sinn, og varð hann þaðan útskrifaður. Á Melum fór sjera Þorvaldur að hafa minni afskjipti af búskap, enn að undanförnu hafði verið vandi hans, enn gaf sig meir við vísindum; þar hafði hann og hvurn vetur 3 eður 4 pilta til kjennslu, auk þriggja sona hans, sem áður eru nefndir. Þessir fóru frá honum í Bessastaða-skóla, og urðu þaðan útskrifaðir: Stéfán, sonur hans, og Jón og Ólafur, sem firr er gjetið; sömuleiðis Ólafur Björnsson frá Hítardal og Stefán "Schagflord" — þeír hættu báðir við lærdóm; enn frá honum sjálfum voru þessi ár útskrifaðir: Björn, sonur hans, og Stefán Stefánsson, amtmanns, "Stephensen."

Öndverðlega ársins 1827 var sjera Þorvaldi veitt Holt undir Eíafjöllum, og flutti hann sig frá Melum austur þángað sama vorið. Undi hann eptir það príðilega hag sínum, og taldi það með mestu höppum sínum, að hann hafði þángað sókt; enda hafði hann ekkji skort á neínu þaðan af; kom hann þá smátt og smátt börnum sínum af sjer, so þau voru flestöll gjipt og farin að eíga með sig sjálf, enn öll vel á legg komin, þegar hann skjildi við. Hann hafði firsta árið bú í Holti; enn árið eptir slepti hann staðnum við teíngdason sinn Stefán "Stephensen", sem áður er nemdur, og tók hann sjer til aðstoðar í prests verkum, og áskjildi sjer framveigis hei

til fóðurs handa 3 kúm, og helmíng af öllum tekjum prestakallsins, sjer og sínum til viðurlífis; fór so fram til þess í vor eð var að sjera Stefán hafði alla ábirgð staðarins, og bús-umráð, og hálfar tekjur af brauðinu. Sjera Þorvaldur var þessi ár allur í bókunum, og hafði jafnan únglínga til kjennslu. Einn þeirra var sistursonur hans, Jón Högnason, sem nú er vígður til aðstoðar föður sínum í Hrepphólum. Hann var útskrifaður frá sjera Þorvaldi, og hafði hann kjennt honum firir alls annga meðgjöf. Um þessar mundir tók hann saman ræður rjett til hvurs helgjidags, og samdi líka ímsar þær ritgjörðir, er eptir hann liggja, og síðar mun gjetið verða. Þegar sjera Stefáni var veitt Kálfafell í Fljótshverfi, og hann flutti sig þángað í fardögum 1836, kallaði hann sjer til aðstoðar, með leifi háifirvaldanna, son sinn, sjera Björn frá Þaunglabakka og Flateíar sóknum, er hann hafði þjónað í 6 ár, og kom hann þá suður híngað; mundu samvistir þeirra hafa orðið þeím báðum til heílla og ánægju, ef hennar hefði leíngur við notið; enn það var ekkji so firirhugað. Heílsa hans hafði alla æfi verið staklega jöfn og góð, enn fór óðum hnignandi hið síðasta ár; sótti hann þá eínkum megu fótakuldi, og leítaði blóðið til höfuðsins og olli svima. Til að verjast því, varð hann öðruhvurju að leggja sig firir. Hann prjedikaði að kalla á hvurjum sunnudeígi, sem hann átti vanda til, og stundaði vísindi, sem firr. So var og daginn sem hann andaðist, 21. dag nóvembers-mán., að hann var á felli fram undir rökkur, sagði til kjennslupiltum sínum, og skrifaði. Síðan lagði hann sig firir; enn fjekk hóstakast stundu eptir miðjann aptan, sem hann átti ekkji vanda til; kvartaði þó ekkji um annað, enn nokkur sárindi í brjóstinu. Eptir það sofnaði hann hjer um eína stund, og sagðist, þá er hann vaknaði aptur, vera miklu hressari eptir dúrinn og rjett albata; settist hann þá upp, og las í rúmi sínu, og talaði, sem vant var, við

börn sín. Um náttmálabil greip hóstinn hann aptur; vildi hann þá enn sofna, enn gat ekkji; og þá er tilrætt var um, að reîna eítthvað við hóstanum, sagði hann það ekkji mundu duga, því slík köst væru undanfari dauðastundarinnar. Hann klæddist þvínæst á meðan búið var um hann, og talaði enn milli þess sem hann hóstaði; var þá tekjið eptir, að hrákjinn var blóðlitaður. Síðan afklæddist hann aptur sjálfur, og fór upp í; enn börn hans gjeíngu burt, so hann mætti sofna. Enn er þau að eíns voru sezt niður í næsta húsi, kom Helga dóttir hans, sem eptir hafði verið að hagræða undir höfði honum, og sagði, hann hefði hnigið niður á höfðalagið og sagt um leíð skjírt: "jeg þakka þjer firir; það "gjetur nú ekkji farið betur". Þegar komið var að rúmi hans, lauk hann hægt upp augunum og rendi þeím til barna sinna, enn lagði þau þegar aptur og lauk þeim ekkji upp framar; því að öll lífgunartilraun reindist árángurslaus. Þetta var um kvöldið jöfnu beggja náttmála og miðnættis 21. dag nóvembers mán. 1836, og hafði hann þá lifað 78 vetur og eítt missiri. Það var hvorutveggja, hann hafði það lanngum sagt, að sú iðrunin, sem á banasængjinni er gjörð, mundi ekkji koma að miklu haldi, og látið sjer alla æfi um það hugað, að áminna þá, sem honum voru handgjeíngnastir, að breíta so á heílbrigðu dögunum, að þeír þirftu ekkji á henni að halda; enda bar og dauða hans að með snöggum atvikum, og áþekkt því, sem það hefði á honum rætzt, er seígir í sálmi hans einum:

Allt eíns deiandi eg mun hneígja,
í trausti Jesú, höfuð mitt;
eg mun þá sofna', enn ekkji deía,
eígnast vaknaður ríkji þitt.

Þorvaldur Böðvarsson var hár meðalmaður vegsti og rjettvagsinn, heldur mikjill um herðar og þrekjinn og beínamikjill og vel limaður. Framan af æfinni var hann

jarpur á hárslit, og liðaðist hárið; enn er hann tók að eldast, varð hár hans hvítt sem silfur, og gjörðist hann þá nokkuð sköllóttur. Höfuðið var í stærra lagi. Hann var meðallagi þikkleitur; nokkuð so rjóður í kjinnum, og lán í hærra lagi kjinnbeinin; nefið hátt og mikjið, og liður á; hakan lítil; enn munnur og varir í meðallagi, og ljek jafnan hægt bros um munninn. Hann var ljósmóeigður, og augun bæði skarpleg og blíðleg, fjörleg, og þó stillileg. Allra manna fullorðinna var hann bjartastur á hörund; og það filgdi því, að nærklæði velktust ekkji á honum. Málfæri hans var lipurt, og rómurinn þægilegur — ekkji hár nje hvellur, og þó hreinn; eingji var hann raddmaður, og þó lagsæll. Meðan hann gjekk til verka (hann sló hvurt sumar þar til hann var rúmt segstugur) þókti hann gjildasti tveggja maki til allrar vinnu, að snarræði, filgji, þoli og afköstum; og fram að fimmtugs-aldri svaf hann aldrei nema 4 stundir í sólarhring. Hann var þolinn og þrautgóður við vos og volk, hugaðri og djarffærnari flestum mönnum, skjótur til ráða og úrskurðar í vandræðum, og hvurjum manni fóthvatari og ljettari til gaungulags. Hann var lipur í allri hegðan: fannst mörgum til — sjer í lagi útlendíngum, er hann sáu — hvursu hann var háttprúður og kurteis, og samferða tímanum í öllu.

Hann var þrígjiptur, eins og áður er sagt; og var hin síðasta kona hans komin undir segstugt þegar hann ljezt. Konum sínum var hann blíður og ástríkur. Við þeim eignaðist hann 21 barn. Þau eru fædd í þessari röð. I. Í hinu firsta hjúnabandi: 1., 2., 3., er öll dóu úng. II. Eptir annað hjúnabandið. 4. Böðvar, sem nú er prestur að Stað í Steíngrímsfirði og prófastur í Strandasíslu. Kona hans er Þórun Bjarnardóttir, prests, í Bólstaðarhlíð. Þeirra börn: Íngjibjörg, hún er dáin; Anna — hana á Rögnvaldur frá Akureium, gullsmiður, Sigmundarson; Þorvaldur; Árni; Íngibjörg — sálaðist 18 vetra, efnilegasta stúlka; Pálína; Hólmfríður; Björn; Þórarinn;

Ebenezer; Þóra; Katrín. 5. barn sjera Þorvaldar er Rannveig. Hún er gjipt Jóni bónda Jónssini á Framnesi í Skagafirði. Þeírra börn: Þorvaldar tveír, og Kristín. 6. Gjiðríður, gjipt sjera Pjetri Stefánssini, amtmanns, "Stephensen", presti í Ása og Búlanz sóknum í Skaptafells-síslu. Þeírra börn — 3 dáin, og 3 lífs: Stefán, Þorvaldur og Magnús. 7. Kristín. Hana átti first sjera Páll Ólafssun, er síðast var prestur í Guttormshaga. Þeírra börn: Ólafur, stúdent, og djákni á Möðruvalla-klaustri; Guðrún, gjipt sjera Jóni Eiríkssini frá Ási í Hultum, "kapeláni" í Lángholti í Meðallandi; þriðja Helga — hún er ógjipt. Síðan gjiptist Kristín Pjetri bónda, frá Eí í Borgarfirði, Eínarssini, Snorrasonar, prests á Húsafelli; og dóu bæði barnlaus skömmu síðar. 8. Sigríður. Hún dó á fjórða árinu. III. Eptir þriðja hjónabandið. 9. Björn — first í 6 ár prestur í Þaunglabakka og Flateíar sóknum í Þíngeíar-síslu, og nú síðast "kapelán" hjá föður sínum. Kona hans er Halldóra Finnbogadóttir af Flateíardal. Þeírra barn: Guðmundur. 10. Ólafur, "kapelán" Sauðafells-þínga í Dala-síslu. Hann á Sigríði Magnússdóttur, hreppstjóra, Sigurðarsonar, á Leírum undir Eíafjöllum. 11. Íngjibjörg, ógjipt. 12. Stefán, prestur á Knappstöðum í Skagafirði. Kona hans er Íngjibjörg Jónsdóttir, prófasts, Pjeturssonar á Höskulzstöðum. Þeírra son: Gunnlaugur Þorvaldur. 13. Guðrún, gjipt sjera Stefáni "Stephensen", sem áður er nefndur, presti á Kálfafelli í Fljótshverfi. Þeírra börn: Kristín, Þorvaldur, Stefán, Marta, Magnús. 14. Páll — dó hálfs mánaðar. 15. Hólmfríður — gjipt Jóni Guðmunzsini úr Reíkjavík, sem firr er nefndur, og nú er umsjónarmaður Kjirkjubæar-klausturs á Síðu. 16. Kristín — ógjipt. 17. Sigríður, gjipt Ásgjeiri Finnbogasini, bókbindara í Reíkjavík. Þeírra son: Þorvaldur. 18. Helga — ógjipt. 19. Björg — dó á 6. ári. 20. Páll — dó 7 ára. 21. Þuríður — ógjipt. Öll voru börn

hans, þau er á legg komust, gjörvugleg, "gáfuð", og vel að sjer; var hann þeim og góður og elskurikur faðir.

Atgjörvi sálar hans var frábært; og kom það öllum ásamt, er hann þekktu, að hann mætti telja með þeím, er "gáfaðastir" voru og námfúsastir og bezt að sjer hjer á landi á hans dögum. Má það til dæmis telja um framfarir hans þegar á únga aldri, að hann var útskrifaður 16 vetra; og á því, sem eptir hann liggur, má líka sjá, hann hefir ekkji vanrækt bókmentirnar seinna hluta æfinnar. Það er meín að því, að hann hefir í ágripi æfi sinnar leítt fram hjá sjer að gjeta ritgjörða sinna; hafði hann þær mjög sjaldan á orði; og ef einhvur minntist á þær við hann, vildi hann eiða því, og fara að tala um annað; og leit það so út, sem hann vildi ekkji sjálfur taka eptir, að mikjið væri í þær varið. Þó má ráða af tjeðu ágripi, að hann hefir snemma gjegnt bendíngu náttúrunnar, og farið að irkja. Undir eíns á Breíðahólstað og Flókastöðum fór hann að stunda þízku; þó má vera, að búskapar-umsvifin, hafi eíns og vant er í sveítum, bægt honum frá, að gjefa sig mjög við þesshátar iðnum, áður enn hann flutti sig að Hausastöðum. Meðan hann var þar, fóru first að koma á prent eptir hann ímisleígir sálmar og kvæði í Vinagleði og öðrum ritgjörðum, er prentaðar voru í Leírárgörðum, á kostnað hins íslenzka "banzuppfræðingar-fjelags". Árið 1800 kom og þaðan á prent eptir hann: Hinn Kristni — það er útleggjíng í ljóðum af kvæði nokkru þízku, er so heítir, eptir *Gellert* skáld; og Basthólms hugleiðíngar firir altarisgaungu fólk, lagðar út á íslenzku. Árið eptir kom firsta sinn á prent Messusaungsbókjin; og hafði hann so vel orðið við boðunum, er 6 árum áður gjeíngu til skálda lanzins, að leggja sálma til hennar — að eptir hann einann voru teknir í hana meir enn 60 sálmar; og á þar eíngjinn eínn jafn-mikjinn skjerf, og því síður jafn-góðann; var honum í formála bókarinnar þökkuð send-

íngjin sjer í lagi; og so sagði M. "Stephensen, konferenzráð", er átti mestann hlut að niðurskjipun hennar og vali sálmanna, að hann mindi eíga öndveígissæti meðal þeírra sálmaskálda, er þá væru á lífi; sjá Eptirmæli átjándu aldar, á 777. bls. Enda er ekkji við það að diljast, að bókjin hefir mest ágjæti sitt af sálmum hans. Þó var þetta ekkji nema þriðjúngur þeírra sálma, er "útgjefendur" sálmabókarinnar höfðu feíngjið frá honum; hjer um tveír þriðjúngarnir, er miður þóktu hæfir til að vera í bókjinni, voru honum aptur sendir; er þó líklegt, að ekkji hafi þeír allir verið síðri, enn sumra annarra, er í hana voru teknir — og illa fór það, að þeím var burtu vísað, first so óhappalega tókst til, að þeír fórust allir með öðrum handritum hans og bókum, er hann sendi sjóleíðis vestur frá Reínivöllum, og áður er á minnst; verður því ekkjert áreíðanlegt í frásögur fært um ritgjörðir hans þessi árin; taldi hann þetta einhvurn tilfinnanlegasta skaða sinn, og mátti ekkji á hann minnast, einkum vegna þess hnekkjis, er það olli bókiðnum hans, þar eð hann hafði ekkji efni á, að afla sjer bóka aptur í skarðið. Þó mun honum hafa tekjist, að rifja upp aptur eitthvað af sálmum þessum — og þó varla so, að ekkji hafi þeír ædi mikjið dofnað, eíns og vant er að fara. Verið gjetur og, að eítthvað af þeím hafi verið til á blöðum, annaðhvurt hjá honum eða öðrum, so honum hafi orðið það til nokkurrar stirktar. Hitt vita þeír, sem voru til kjennslu hjá honum á Melum, að hann átti þá sálmabók í fjögra blaða broti, sem ekkji var útskrifuð — og var að irkja í hana öðruhvurju. Menn vita nú ekkji, hvað af henni er orðið; enn sjálfsagt hefir flest hið sama á henni verið, og enn er til á kveri nokkru í átta blaða broti. Eru í Holti þrjú "egsemplör" þess, öll með hendi hans sjálfs, og þó ekkji með öllu samhljóða. Ber það til þess, að hann, allt fram að dauða sínum, linnti ekkji að hugsa um þetta — umbreíta því, og bæta inn í því

er honum virtist horfa til umhóta. Hið níasta handrita þessara má þó telja hreínskrifað, og so frá því gjeíngjið, sem hann hefði viljað, það irði prentað. Á því eru 149 sálmar; og þó enn átta að aukji á öðru eldra; munu þeír sumir vera útlagðir, enn sumir frumkveðnir, og er þeím með sama hætti niðurskjipað, sem barnalærdómskverinu og Messusaungsbókjinni; þeír eru, eíns og hún, nokkurskonar útskjíring í ljóðum hinnar kristilegu trúar og siðalærdóms — það er: þess, sem hvur kristinn maður á að trúa og gjöra sjer til sáluhjálpar — með þeírri niðurskjipun, sem álitin er auðveldust og greínilegust. Þeír, sem fræðing barnanna er á hendur falin, gjefa því enn þá of lítinn gaum: að messusaungurinn — eíns og honum er firir komið, þar sem reglan er komin á — er sjer í lagi ætlaður til, að gjöra þann lærdóm ávagstarsamann firir hjartað, sem lærdómsbókjin á að innræta skjilníngjinum; og má hvurugt annars án vera, ef að þekkjíngin á að gjeta orðið skjír og nitsöm. Má af þessu ráða, hvursu mikjill feíngur það er bókmentum vorum, og hvursu mikjið í það er varið til eblíngar guðrækninni, er sálmaeígn vor hefir öðlast þvílíkann viðurauka. Vera kann, sálmarnir að tiltölu kjinnu ekkji virðast þeím jafnir, sem prentaðir eru eptir hann í Messusaungsbókjinni; enn ekkji að síður ræður að líkjindum, að stuðlað verði til, að þeír um skammt komi firir almenníngs-sjónir. Um sama leíti, og hann auðgaði sálmasafn sitt, á Melum, hafði hann aðra bók, líkt umvandaða, og ritaði í hana mörg gamankvæði, sum frumkveðin, enn sumum hafði hann snúið úr þízku og latínu — eínkum eptir *Hagedorn*, *Ovidius* og *Horatius*. Það verður að so stöddu ekkji komist firir, hvar bók þessi er niðurkomin, eða hvurt hún enn er til; því seínast í haust, er leitað var máls á því við hann, sagði hann sig minna, að hann hefði sjálfur firirfarið henni af ásettu ráði. Um þessar mundir snjeri hann líka á latínu Hænsa-Þóris-sögu, og gaf hana herra

*Keyser*, sem nú er háskólakjennari í "Kristjaníu", og dvaldist hjer á landi frá því 1825 þángað til 1827, til að nema íslenzku. Sögðu þeir, sem vit höfðu á, að sú útleggjíng væri prýðilega gjerð. Í Holti hjelt hann áfram bókiðnum sínum og skáldskap, með eins frábærri ástundan, og áður á Melum; mátti kalla, að bókjin og penninn væru til skjiptis allt af í höndum hans. Hann snjeri þar á íslenzk ljóð þýzka snilldarkvæðinu "Abels dauða", eptir *Gesner*, og úr dönsku Timms-sálmum — fremur firir ítrekaða bón vinar síns og svila, sjera Gunnlaugs Oddssonar, dómkjirkjuprests, enn að honum þæktu þeir mikjið afbragð annarra sálma. Þar að aukji snjeri hann á íslenzku 40 ræðum úr hinni nafufrægu lestrabók, er rituð er á þízku, og kölluð: Guðrækuisstundirnar. Allar þessar útleggjíngar eru til, ritaðar með hendi hans sjálfs. Þá snaraði hann og á latínu þáttinn af Indriða og Erlíngji, aptan við Ólafs sögu helga. Hjer að aukji liggur eptir hann mikjill fiöldi af ræðum; því so var hann iðjusamur, að hann bjó til prjedikanir til flestallra helgjidaga.

Af framantöldum ritgjörðum hans er efalaust mest varið í sálmana. Það kann að verða að þeim fundið, að þeir sjeu ekkji alstaðar sem liðugastir, og stundum standist ekkji á, eður skjiptist með einum hætti, hendíngar og efni — sem ætíð er til hnekkjis þeím skáldskap, sem ætlaður er til að gjöra áhrif í saung. Vera kann og, að orðfærið sje ekkji alstaðar so hreint, að ekkji meigi að finna. Enn þó eru þeír kostirnir, að ifirgnæfa, og eingjinn fær hrundið; og sá firstur, að sumir þeirra eru so fagrir og skáldleígir, sem vart munu dæmi til finnast í vorum andlega saung, nema, ef til vill, einstöku Davíðs-sálmar — og sumir eptir sjera Hallgrím Pjetursson t. a. m. "Kominn er veturinn kaldi", og sá sem ágjætastur er allra sálma hans: "Allt eins og blómstrið eina" — og sumt í útleggjíngu Kjíngós-sálma, eptir sjera Stefán í Vallanesi; líka eru lögin sum so heppilega valin og vel

eptir efninn, að trauðla hefir neitt annað sálmaskáld hjer á landi haft jafn-góð tök á því; lísir það eíns og annað skáldskaparviti hans. Til dæmis um annaðhvurt af þessu eða hvurttveggja, mætti taka "No." 23, 25 (61, 86) 258, 259, 264, 285, í Messusaungsbókjinni. Sá er annar kostur þeírra, að þeír eru hjartnæmir eða góðir — sem alþíða kallar; og á því ríður mest í þeím ljóðum, er eíga að vera til alþíðu "uppbiggjingar" og eflíngar guðrækninni; þess njóta allir jafnt, enn hins hinir lærðari eínir saman. Af þessu leíðir það margopt, að þeír sálmarnir, sem meír er í varið, er þeír hafa báða þá kosti, er nú voru taldir, öðlast minni almennings-hilli, enn þeír er hafa hinn seínni eínann; og sá presturinn ávinnur sjer stundum lítinn alþíðu-hróður, sem flitur ræðurnar algjörðastar, af því kunnátta hans er of mikjil til þess hann tali máli hjartans eínusaman. Öllum sálmunum, sem hjer er verið um að tala, er það staklega lagið, að vekja guðrækuistilfinníngar; hjer nægir að taka til dæmis: "No." 7, 28 (37, 44, 63), 74, 153, 167, 194, 223, 281. Enn er hinn þriðji kostur athugandi; og það er sá, að niðurskjipun hugmindanna er so greíuileg og náttúrleg, og sálmarnir bera með sjer so ljósa þekkjíngu sannleíkans, að þeír eru skjilníngjinum til hæfis, án þess að láta tilfinníngarnar kafna undir; enn það er sá hlutur, sem mörgum veitir eínna erviðast að koma saman. Þessi sálmur: "Allt heímsins glisið, fordild fríð", eptir sjera Hallgrím Pjetursson, er, til að minda, afbragð margra sálma hans, og er hann bæði skáldlegur og góður; en þó er sumum versunum ofaukjið, af því hugmindunum er ekkji alstaðar skjipulega firir komið — auk þess sem aðalefnið í þessum sálmi: að niðra so ákaflega heiminum, er ekkji með öllu óiggjandi. Áðurnefndir sálmar í Messusaungsbókjinni: "No." 23, 25, 74, sömuleiðis 89, og flestallir sömu ættar, eru til dæmis um sálma, sem ekkji er áfátt í þessu efni. Enn þó að þessi dæmi sjeu hjer

talin, má samt ekkji ætla, að neinn sálmur sjera Þorvaldar hafi að eins einn hinna töldu kosta, og ekkji með fram hina. Missiraskjipta-sálmarnir: "Lofsíngjið, göfgjið, glaðir"; "Ní upp rann þín sumarsól"; og "Öll náttúran enn fer að deia"; hafa, til að minda, allt til að bera fegurðina, hjartnæmið og sannleíkann; má ekkji grein á gjera, hvurt þeir sjeu meíri að hæð eður indæli, eður nái fremur til hjartans eða skjilníngsins; og er það ætlan vor, hvurnig sem alþíðu dómur er, að þeir, að öllu samanteknu, sjeu einhvurjir ágjætustu sálmar á vora túngu; og er þá ekkji höfundi þeírra hælt um of, þó sagt sje, að meíra sálma-skáld hafi ekkji verið á Íslandi, þegar frá er skjilinn Hallgrímur Pjetursson; og mun þetta betur sjást, þegar leíngra líður frá.

Til að gjeta orkt, þarf að sönnu "náttúru-gáfur", fremur enn lærdóm. Enn nú var á það vikjið, að sálmar þeir, er hjer voru nemdir, lísa einnig lærdómi þess er þá kvað. Það er og sannast, að það var líf hans og indi, að leíta sannleikans. Hann var ágjætlega vel að sjer í grísku og latínu, og hafði bætt "smekk" sinn við lestur hinna beztu bóka, er á þær túngur hafa verið samdar. Firir því tókst honum líka ætíð so vel, að seígja til únglíngum og koma lagi á þá. Þó var hann hneígðastur firir heímsspekji og guðfræði; var hann sjer jafnan úti um þær bækur, er í öðru hvurju þessu mætti mest á græða, og komst so vel niður í því hvurutveggju einkanlega samt í skjíríngu ritníngarinnar *(Eksegjetik)* og þeím vísindagreínum, er þaðan eru dreígnar — trúarfræði og siðafræði, að leit mindi á þeim hjer á landi, er rjettari og glöggvari skjilníng hefðu um þessi efni, sem ern undirstaða allrar guðlegrar vizku; var hann og mikjils metinn af öllum mentavinum og vísindamönnum á landi hjer. Hann var aðdáanlega laus við öll fjötur venjunnar, og allskonar hindurvitni og hleípidóma, og einsini þá, er aptrar þekkjíngu á sannleíkanum, og helzt er

vön að loða við hálflærða menn, þó lærðir sjeu kallaðir; eins var honum illa við vantrú og virðíngarleisi á því sem heilagt er — þó hann elskaði skjinsemina, og fiundi, hvursu stirkann hún gjörir manninn, þar sem hún er mikjil, og þó samfara auðmiktinni. Hætti honum til, að verja meira hluta kjenníuga sinna til að fræða skjilníngjinn og auka hann, og uppræta hleípidóma og vanaþulur, sem nóg er af hjá almenníngji; og var ekkji trútt um, að dirfska hans í þessu bakaði honum mótþróa á stundum, eins og hætt er við, þar sem vanþekkjíng er mikjil. Ekkji var heldur við því að búast, að kjenníngar hans gjætu alls kostar verið eptir gjeði þeirra, sem heldur mindu kjósa hvurn þann sálm, er tekjinn væri úr grallaranum, enn beztu sálmana hans; því það lætur að líkjindum, að í ræðum hans hafi andinn verið áþekkur og í sálmunum. Þessvegna átti hann líka á hinn bógjinn, alstaðar er hann hafði verið sóknarprestur, allmörg sóknarbörn, er elskuðu hann firir það hvurttveggja að maklegleikum.

Siðir sjera Þorvaldar studluðu mjög til þess, að auka ávögstu kjenníuga hans og efla siðgjæði sóknarbarnanna. Hann var ljúfur og lítillátur, stilltur og orðvar; eíngji hlutur var honum leiðari, enn blót og ósannsögli; leiddi hann sig jafnan hjá þráttun og kappræðum, og sló heldur undan, enn að hann leitaðist við, að halda fram með þeim hætti máli sínu. Mæltu það sumir menn firir þessa sök, að hann skjirti gjeðsstirkleíka, einurð og hreinskjilni. Hvur, sem les ágripið af æfisögu hans, mun upp frá því trauðlega gruna hann um þetta; var það og mála sannast, að hann hafði fulla einurð til að seígja mönnum meínlegann sannleíka, þegar honum rjeði so við að horfa, þó að hann hefði ekkji mikjinn orðafjölda. Enn víst var um það, að honum var meír eptir gjeði kjirlát og friðsamleg iðkun vísindanna, enn að standa í því, er mikjil umsvif eður þras þurfti við að hafa. Á heímili sínu var hann hægur og jafnlindur, skjemtinn og við-

feldinn. Sparneítinn var hann, og mesti hófsmaður; hann var staklega óágjeíngur, undi jafnan hag sínum, hvurnig sem kjör hans voru, og leítaði ekkji á aðra. Hann var aldreí iðjulans; þó var hann optast við bókiðnir sínar. Um sóknir sínar var hann áhiggjusamur, og lagði staka alúð á fræðíngu barnanna, og alla kjennslu sem hann á hendi hafði. Hann var hæverzkur og vandlátur við sjálfann sig og guðhræddur. Af þessu öllu þikjir meíga fullirða, að fáir, sem ekkji hafa átt hægri kríngumstæður, hafi náð meíri fullkomnun andans — og fáir, sem ekkji hafa komist til æðri valda, hafi meíru gáðu til leíðar komið, og átt við nitsmara og affarasælla líf að gleðjast; og fer so jafnan, þegar afhragzgáfur og að því skapi ástundan og mannkostir verða samfara hjá einhvurjum manni.

Hann var grafinn mánudaginn annann í jólaföstu 5. dag desembers. Þó komnar væru vetrarhörkur og snjór, enn dagur sem stitztur: var eígi að síður margmennt við útför hans; enda var og veður gott og kjirt þann dag. Voru þar saman komnir helztu menn úr hans sókn, og flestir heldri bændur úr nálægum sóknum, nokkrir stúdentar, og tólf prestar. Þjónustugjörðin var birjuð með sálmi hans "Kristur, er ljezt á krossi lífið"; síðan flutti prestur hans, sjera Magnús Torfason á Eivindarhólum, snotra hússræðu, og var að því búnu líkjið borið út í kjirkjuna, enn á meðan var súngjinn þessi sálmur: "Glaður hjeðan vil eg venda". Var þá birjaður sálmurinn: "Sú kjemur stund", og eptir hann lesin ifir kjistu hans sú ræða, sem hjer er prentuð aptan við æfisöguna, eptir beíðni ættíngja hans.

## RÆÐAN.

Það er sú vizkan, sem í æskunni ber að læra, og hinn fullorðni og sá sem hniginn er á efra aldur jafnan á að hafa sjer hugfesta: að lífið er manninum lánað skamma stund, og í því skjini, að hann búi sig undir

dauðann, eður rjettara að seígja: undir það lífið, sem hann á að vakna til af dauðans nótt. Enn vjer megnum ekkji þetta — heldur enn annað gott — af sjálfum oss til. Þessvegna flíum vjer til þín, miskunsami guð, herra lífs og dauða! kjenndú oss að gjæta vor í heíminum, að vjer missum aldreí sjónar á því, til hvurs lífið er oss gjefið. Veíttú oss náð til, að gjefa so gjætur að sjerhvurju fótmáli voru, að vjer ekkji um seínann verðum þess varir, að vjer höfum firir gáleísi vort villst af þeím veígi, er liggur til þín. Láttú þetta tækifæri minna oss á það: að vjer erum allir á leíðinni til grafarinnar, og aðrir gjeta ekkji dauðanum fagnað, enn þeír, sem í lífinu gjeingu firir þínu augliti; og láttú oss af þessari tilhugsun hvetjast til að vera viðbúna að kveðja heíminn, hvunær sem vjer verðum kallaðir — að leítast við að gjöra oss ríka að góðum verkum — að hafa hjá þjer ullann hug vorn og alla laungun vora. Þá skal dauðadagur vor, er oss loks auðnast að koma á þinn fund, verða oss frelsunardagur, og hinn mesti sæludagur gjörvallrar æfi vorrar.

Lúk. 23.—28: Grátið ekkji ifir mjer!

Elskanleígir! Eíngjinn iðar, sem hjer eruð samankomnir, er so ófróður, að það þurfi að skjíra honum frá, við hvaða tækjifæri þessi orð hafi tölnð verið, eður hvur þau hafi mælt. Það eru eínhvur hin minnilegustu orð frelsarans. Enda þekkji jeg ekkji mörg, er betur sjeu fallin til lærdóms, áminnínga og huggunar. Því sá einn gjetur verið glaður í hjarta, og haft á vörum sjer orð huggunarinnar, mitt í því hann fetar út í dauðans píslir, örmagnaður undir þúnga krossins — sem litið fær bæði til hins umliðna og hins ókomna án ótta og ásökunar sjálfs sín; sem hefir þann vitnisburð samvizku sinnar, að hann erviðaði meðan dagur var, af því hann athugaði í tíma, að nóttin kjemur, þá ekkji verður aðhafst.

Hann gat falið atvikjin við dauða sinn guði á vald, af því hann var sjer meðvitandi, að líf sitt hafði verið honum helgað, og hann hafði gjirnst og ástundað það eitt, að guðs nafn irði dírkað og vegsamað; hann gat öruggur falið anda sinn í hönd síns föðurs, af því hann gat áður vitnað firir heíminum, að það verkjið, sem honum var á hendur falið, væri fullkomnað. Vjer skjiljum að vísu, að frelsarans sálar-ásigkomulag, í kvölunum og andlátinu, hlaut að vera ólíkt sindugra manna; því hann var í því ólíkur mönnum, að hann var heilagur, og jafnvel óvinir hans gátu ekkji sannað á hann neína sind; enn sindin er broddur dauðans. Vjer vitum, að þú, sem varst gjeingjinn út af föðursins skauti og kominn í heíminn, gazt á þínum kvaladeígi notið þeírrar huggunar, sem eíngjinn mannanna fær notið — að nú var að því komið, að þú mættir, eptir afrekaða endurlausn heímsins, gánga aptur inn í dírð þíns föðurs, þar þú hafðir verið áður enn heímurinn var til; — enn vjer vitum það eínnig, þú hefir oss eptirdæmi gjefið, að vjer skjildum feta í þín fótspor — vjer vitum það, sem trúum, að þú ert farinn á undan oss að firirbúa oss stað í húsi þíns föðurs, og þar sem þú ert, þar skulu og þjónar þínir vera. Þess vegna er því so varið, að eíngjinn fær ifirgjefið heíminn, eíns og kristnum hæfir, sem í dauðansstríði gjetur ekkji — álikt og frelsarinn — talað til sinna harmandi ástvina þeím blíðu orðum huggunarinnar: ifir mjer skuluð þjer ekkji gráta! því að eínnig jeg hverf til míns og vor allra föðurs; þar skulum við aptur hittast, þar skulum við aptur saman vera, og eíngjinn hlutur skal þaðan í frá fá oss að skjilið! Lífinu er ekkji varið eíns og vera bar, ef ekkji hvurt andvana líkjið á þessa leíð so sem ávarpar þá og huggar, er gráta og kveína á hinni bitru stund skjilnaðarins; og first að þessi tækjifæri eru ekkji eínúngjis ætluð til þess, að veíta hinum burtförnu hina

síðustu virðíngu, þakklæti og elskusemi, heldur og líka — er þau neiða oss til, að veita lífinu athigli — til þess, að fræða oss sjálfa, og stirkja oss í þeím efnum, er oss mest um varðar, og til þess, að knía oss til að ástunda það, sem gjörði hinum framliðna lífið farsælt, og dauðans blund værann: þá er, að minni higgju, þessari stund ekkji óhæfilega varið, ef oss gjæti orðið það bert, hvað hinn dauði hefir, eður á að hafa, til þess, að hann gjeti sagt til hinna lifendu: "grátið ekkji ifir mjer!" og með hvurjum sanni sá, er hjer liggur látinn, gjeti ávarpað oss þessum orðum.

Þegar einhvur er sagður látinn, er það algjeingt, að hinum lifendu verður það so sem ósjálfrátt — í orði eður huga — að þakka guði firir frelsun hans; og það jafnvel stundum, þó þeím væru hinar jarðnesku kríngumstæður hans ekkji mjög kunnar. Þetta kjemur til af kunnugleika þeím, er menn hafa firir fram um kjör þeirra, sem á jörðina eru settir — því flestir hafa reínt og fundið, hvursu þúng lífsins birði er. Þeír þekkja það lögmálið, sem mannanna sinir hljóta að bera, meðan þeír dveljast á jörðunni — og vita, að öll skjepnan stinur og þjáist (því að hún er hjegómanum undir orpin) með þeirri von: að hún einnig frelsuð verði, frá þrælkun fallvaltrar veru, til dírðlegs frelsis guðs barna. Þetta líf er barnsaldur mannkjinsins — það er uppeldis-tími þess; frelsisins verður ekkji notið, meðan ekkji er komið vitið til að stjórna því; maðurinn er eíns og barnið, sem fer sjer að voða, ef hendinni er af því sleppt; á alla vegu halda að honum þær skorður, er hann fær ekkji ifir stigið. Á þessu litla svæði er honum ætlað, að læra að gánga; er honum ætlað, að vitkast smátt og smátt — so hann verði því fótvísari — so hann gjeti farið því hraðar, þegar sviðið stækkar — so hann gjeti heldur varast þau fótakjeblin, er honum kunna að mæta á hinum stærri óförnu vegunum. Sálin er í fángjelsi líkamans inni birgð; hið

ódauðlega er með þræði lífsins teíngslað við heímkjinni dauðans; og sá tíminn er í aðsigi, að þessum þræðinum verði með ofbeldi sundur svipt. Þetta er reínslutími mannsins; hans máttar — hans vilja — hans skjilníngs — hans þolinmæði er freístað á margann hátt; heímurinn leggur snörur á vegu hans, so að hann festi fót sinn í þeím; og í því, sem er enn þá nær honum — í holdi hans — finnur hann, að bír ekkjert gott. Þessir voldugu óvinir sitja um hann, og ótta honum sífellt; þeír filla hann áhiggju, að hans stírislausa lífsbáti, hvunær sem hann gjætir sín ekkji, kasti, firir ofurefli stormanna og boðanna, upp á það skjerið, sem hann helzt vildi forðast, af því hann firir fram sá sjer tjón búið, ef hann bæri þar að. Þess vegna prísum vjer þá sæla, sem af lokjið hafa hinum firsta áfánga tilverunnar, meðan vjer stöndum eptir á miðri leið — vjer prísum þá sæla, sem hafa fundið sinn frelsunardag; þess vegna samfögnum vjer þeím, sem eru lausir við líkamans fjötur — þeím sem komnir eru fram hjá ófrelsinu, fram hjá reínslunni; þess vegna virðist oss, að þeír meígi til vor seígja: grátið ekkji ifir oss!

Enn þó að öll mannanna börn sjeu þessu sama lögmálinu undir orpin, þá er þó hitt víst, að kjör þeírra eru harðla misjöfn hjer á jörðu. Það virðist so, sem nokkrir væru ákvarðaðir til að njóta allskonar sælu þessa heims: heill og hamíngja berast þeím í hendur firirhafnarlaust; firirtækji þeírra gánga þeim að óskum; ógjæfan og mótlætið sneíða fram hjá híbilum þeírra; þeír njóta allskonar gleði og virðingar, sem mannleg sambúð gjetur í tje látið; og þeír kvíða leíngji vel ekkji öðru, enn þeim tímanum, þegar dauðinn eptir lögmáli náttúrunnar, kjemur að gjöra enda á þessari sælu — kjemur að ónáða þá sálina, sem át og drakk, af því hún hafði til margra ára saman safnað. Hinir eru þó miklu fleíri, sem urðu að síta og gráta, meðan heímurinn fagnaði — sem

áttu að búa við þjáníngar og mótlæti — þó að þeír erviðuðu og sveíttust, skorti þá daglegt brauð; þó að þeír sáðu, leit út eíns og uppskjeran fliði þá; beztu firirtækji þeírra bökuðu þeím öfund og óþakklæti; þeír tóku hatur firir ást, og firirlitníng í stað heíðurs; að þeím var lítill gaumur gjefinn; þeír báru harm sinn í hljóði, af því að eíngjin hönd var út rjett þeím til aðstoðar; og þó að guð gjæfi þeím eínhvurn þann vin, sem um stundarsakjir þerraði harmatárin af kjinnum þeírra, þá var honum, stundum firr enn varði, aptur í burtu kjippt — so að missirinn olli þeím meíri sorgar, enn gleðin var, er samveran hafði veítt. Sá, sem þannig er af heíminum á tálar dreíginn, leítar ekkji upp frá því farsældar að heímsins hætti; first að heímurinn hefir snúið við honum bakjinn, þikjir honum ekkji mikjið firir, að sjá heíminum á bak; hann mænir augunum upp til himinsins, er hjálpina sendir; hann unir guðs vilja; enn biður þó, fullur trúnaðartrausts, að sú stundin meígi nálægjast, er hann fær að leísast úr heíminum — er sálin fær að ifirgjefa líkamans samvistir, og hverfa heím í land sins föðurs — er hann fær að hitta þá aptur, er á undan honum voru farnir, og sá tíminn kjemur, að þeír, sem í tárunum niður sáðu, skulu í fögnuði upp skjera. Þessum samfögnum vjer þá einnig, að dagur sorgarinnar er að kvöldi kominn — að þeír hafa öðlast umskjipti til hins betra. Eínnig þessir kalla til vor af landi sælunnar: **grátíð ekkji ifir oss!**

Þeír eru farsælir, sem að dánir eru, af því þeír eru komnir úr mótlætíngum þessara tíma í þá dírð, sem við guðs börn munn opinber verða. Enn lífið var líka ætlað til að vera erviðistími. Allir voru mennirnir leígðir í drottins víngarð, snemma morguns, eður um miðjann dag, eður um elleftu stund. Hvurjum var sitt pund í hendur feíngjið — ekkji til þess hann græfi það í jörðu; heldur so hann verði því, með þeím trúleíka, og eptir þeím mætti, sem honum var gjefinn. Þar í er fólgjið

dírmæti lífsins, að það gjefur manninum kost á, að firirbúa sjer farsæla uppskjeru. Þess gjætir sá ekkji, sem tekur sjer ekkjert firir hendur, og sóar lífinu umhugsunarlaust í hjegómlegum eður siudsamlegum athöfnum. Hvurnig gjetur sá að kvöldinu launa vænt, sem ekkji hefir borið hita og þúnga dagsins? hvurnig gjetur, án þessa, næturblunduriun orðið honum vær? Erviðið reínir á þol mannsins og krapta hans, og þessvegna hættir so mörgum til, að vilja hliðra sjer hjá því. Það er torvelt, að gjegna trúlega þeím skjildum, sem hin jarðneska köllun mannsins af honum heímtar; enn verðlaunin eru líka mikjil, þegar skjildunum er vel af lokjið; því hvað er gjirnilegra, enn að gjeta, þegar í þessu lífi, eptir köllun sinni, orðið mörgum til aðstoðar og gleði? enn að meíga álíta sig so sem til þess ætlaðann, að ráða úr vandræðum annarra — að hjálpa hinum nauðstadda — að þerra tár hins grátna — að auðga mennina að guðlegri spekji — að leíða þá, sem villst hafa afvega, með orðum og eptirdæmi, aptur á drottins götu, so að þeír verði aðnjótandi frelsunarinnar, og sálum þeírra verði borgjið? Hin sanna farsæld mannsins í þessum heími er ekkji í því fólgjin, að hann sje laus við andstreími og mæðu — að hann njóti eintómrar gleði, og kjenni ekkji á neínni óblíðu lífsins; heldur er hin sanna farsæld þar í fólgjin, að hið mótdræga gjöri manninn ekkji úrræðalausann, að það, miklu fremur, aukji honum þrótt, og betri vilja hans, so hann leíti gleði í því, að fullkomna það verkjið, sem honum var firir trúað — so hann ávinni sjer með því virðíngu og ást allra sem góðir eru. Mótlætisskúrirnar, sem ifir hann dinja, hrína þá ekkji á honum; hann veítir þeím varla eptirtekt; augu hans horfa einúngjis á ætlunarverk hans; hann huggast við þá von, að sjá það á enda kljáð — að sjá þess ávegsti margfaldast, öllum til góðs, er þeír gjeta til náð; hann gleðst af því, að erviðistíminn stittist — að kvöldið nálægist, er hann skal öðlast

hæga hvíld — er hann skal taka umbun trúrrar þjónustu; hann leggur sig til hvíldarinnar glaður í anda; hann þakkar guði, að hann bar lán til, að fullkomna dagsverkjið með heiðri; og væri honum firr í burtu kjippt, var hann ekkji óviðbúinn dauðanum; og í andlátinu lofaði hann guð firir það líf hans var ekkji til ónítis. Honum hlotnaðist það margopt að þreifa á velvild og elsku annarra; það varð stundum margur til, að aðstoða hann í þrautunum — að hugga hann í hörmúngunum; hann átti ástvini, sem stóðu grátnir við banasæng hans; og við líkkjistu hans hrukku mörgum tár af augum. Enn ef allt þetta brást, fóru menn þó að unna honum sannmælis, þegar hann var burtu farinn; það sem vel var gjört, gat ekkji leíngur dulist, þegar hætt var að halda því niðri; minníng hans lifði í blessan í landinu; og dæmi hans var, mann eptir mann, tekjið til eptirbreítni. Sá sem þannig hagaði sjer — honum er indælt, að líta til hins umliðna. Þetta er umbun trúleíkans! þetta eru hin stundlegu laun jarðnesks erviðis! Og þar sem sá, er eíddi lífinu í tómlæti, fillist órósemi, hvurt sinn, er hann rennir augnnum til sjálfs sín — hvurt sinn, er honum kjemur í hug, hvursu ónítur og óþarfur hann var, hvursu hirðulauslega hann varði sínu pundi; þar sem hann lítur með kvíða æfinnar kvöld nálægjast, og tekur komu þess með örvínglun: þar er hinn glaður af hjarta, að hann ljet ekkji hjálpræðistímann ónotaðann fram hjá líða — að erviðistíminn er þannig úti, að hann hljóp ekkji undan birðinni, heldur bar hana til enda — að hann har auðnu til að stríða og öðlast sigurinn. Maklega má hann ávarpa þá, er eptir standa í því hann fer burtu: grátið ekkji ifir mjer!

Enn margur var gagnlegur mannlegu fjelagi; margur gjörði það verkjið trúlega, sem honum var á hendur falið, og var að því leíti ánægður með sjálfann sig; lát hans grjetu ekkji fáir, og minníng hans var þeim kjær

og ástfólgjin: enn þó gat þar verið so áfátt í einhvurju, að endurminníng hins umliðna úróaði samvizku hans — að hann gjæti ekkji ifirgjefið heíminn með glaðværum auda. Erviðið firrti hann að vísu margri sind — bægði mörgu því, að koma nálægt honum, er hrösun gjæti ollað; enn þó gat einhvur sindin fundið hann so óvaraun um sig, að hann festi fót sinn í snörum hennar. Og þó hann feíngji sig aptur losað — þó hann með beiskum iðrunartárum hefði fullvissað sig um firirgjefníngu hjá guði: þá gat hann sjálfur ekkji firirgjefið sjer ávirðíngu sína; hann ángraðist ifir henni hvurt sinn er hún rann honum í hug; hann vildi gjeta afmáð þetta áformið, þetta verkjið, úr bók samvizku sinnar — enn hann gat það ekkji. Þess vegna eru sindirnar so viðsjárverðar; á þessu er það hægast að sjá, hvað ófarsælt það er, að hafa við þær samneíti — að meðvitundin um þær ifirgjefur ekkji þann, er þær drígði, upp frá því þær voru drígðar — að þær láta ekkji af, þaðan í frá, að auðmíkja manninn, að baka honum ángur og ásakanir sjálfs sín, þó hann sje aptur kominn í sátt við guð, og viti það, hann sje sjer náðugur. Tímarnir líða fram hjá; árin renna inn í hið mikla haf eilífðarinnar, og þeirra gjætir ekkji leíngur. Það, sem illa var gjört — það, sem illa mæltist firir, gleímist öðrum smátt og smátt, hættir að olla höfundi sínum vanvirðu og áfellis hjá öðrum; enn hann gleímir ekkji sjálfur — og gjetur ekkji gleimt — því, sem hann tók sjer firir hendur, og að hafðist, í gjegn ráðleggjíngu og viðvörun samvizku sinnar; það er með honum hvervetna, eíns og voðaleg filgja, og ifirgjefur hann ekkji, þó að allar aðrar menjar hinna firri tímanna sjeu honum horfnar. Það var að framan sagt, að lífið væri reínslu-tími; enn af því, að þessi raunin gjetur farið so misjafnt, leíðir einnig af því, eíns og hjer af má sjá, að það er tími hættunnar. Maðurinn stendur jafnan, í hinu andlegu efnunum, so sem á ógagnsærum ísi, þar sem hann veit, að djúpið er undir, enn

gjetur ekkji sjeð, hvursu þikk sú himnan er, sem heldur uppi lífi hans; hann þarf að hafa gjætur á sjer — háskjinn er honum búinn, ef hann gleímir, hvar hann stendur; hann þarf að heíta á guð sjer til liðveízlu; og ef hann kjemst slisalaust ifir þann hilinn, er hann gjekk á, þá verður fögnuður hans mikjill — þá lofar hann aðstoð drottins, sem varði hann óförum. First að hvurt fótmál mannsins er þannig vafið hættum og freístíngum, meðan hann er á leíðinni um heíminn; first að þróttur hans er so lítill til mótstöðu, vilji hans so veíkur, blindni hans og skammsíni so mikjil — enn hvur sindin, sem hann gjörði sig valdann að, ljet þaðan í frá ekkji af að ángra hjarta hans: hvursu mikjið gledieful er þá ekkji firir manninn hvur dagurinn, sem af hrekkur, so að hann fjekk varist sindinni, og gjört það eítt, sem gott var! hvílíku happi eíga þeír þá ekkji að hrósa! hvursu mikjil hlítur þá ekkji farsæld þess að vera, þegar skjeíðið er á enda, sem bar gjæfu til, að sneíða sig hjá óförum þeím, er so mörgum urðu að tjóni og eímd — sem varðveítti trúna og góða samvizku allt til enda! hvursu mikjið á hann ekkji guði að þakka, er leíddi hann í sínum ótta á götu sakleísis og ráðvendni, so að hann, við endalok sinnar jarðnesku vegferðar, hafði fátt að ásaka sig um — fátt að hriggjast af! Hann gjeímir þann vitnisburð í hjarta sínu: að hann varði lífinu til þeírra nitsamlegra athafna, er köllun hans heímti; enn að hann ónítti ekkji firir sjer þessa hrósun, með því að gjöra sig sekann um þá rángsleítni, er hrópar til hins rjettláta um hefnd — með því að flekka sálu sína í þeím sindunum, er guð hefir viðbjóð á. Þegar hann er frelsaður úr hættunni, gjetur hann, í fögnuði hjarta síns, eínnig sagt: grátið ekkji ifir mjer! jeg hefi rjettlátur ifirgjefið jörðina, enn minníng rjettlátra lifir í blessan.

Hingað til hafa hugleiðíngar vorar lotið að því, að prísa þá sæla, sem eru sofnaðir, firir það þeir eru frelsaðir frá því öllu, sem gjörir þetta líf þúngbært og mæðusamt, ervitt og hættulegt; því vjer höfum virt firir oss hjervistardaga mannsins, so sem væru þeir tími reínslunnar og áanaðarinnar, tími hörmúngarinnar, tími erviðisins og tími hættunnar. Enn væri dauðinn ekkji annað, enn að mennirnir, eíns og firir nokkurskonar blund, losuðust við lífsins óhægindi: þá stæði enn á sama, hvurnig þeir breíttu; þá væri dauðinn öllum jafnt gleðiefni — illum og góðum, ránglátum og rjettlátum; og þá hefði sá skjinsamlegast breítt, sem gjerði sjer hægast firir í lífinu. Enn vjer höfum aðgjætt, að það gjeta ekkji allir sagt á banadægrinu: grátið ekkji ifir mjer! Það verður ekkji öllum, sem í gröfunum eru, tilhlökkunarefni, að heíra þá guðssonar raustina: gjörðu reíkníngsskap ráðsmennsku þinnar; því að þú mátt ekkji leíngur ráðsmennsku hafa! Það er ekkji ætlun vor í þetta sinn, að lísa því, hvað þeir eígi þá firir höndum, sem ekkji þekktu sinn vitjunartíma; enn það munu flestir skjilja, að þeir eínir fái þá orlof að gánga inn í fögnuð síns herra, sem þikja þess verðir, að þeir sjeu settir ifir mikjið, af því þeir voru trúir ifir litlu; enn þá er líka feíngjið allt hið góða, sem þeir hafa gjeíngjist firir í lífinu — öll sú sæla, er þeir hafa undirbúníng til að njóta; þeir fá öll sín meín bætt, og öðlast það allt, er á jörðunni hefir knúð þá til, að þrá himininn; því þá er sá tími kominn, að þeír frelsast frá öllu andstreími, og taka farsældina í umbun digðarinnar — og gánga inn í þá sælu, er eíngann enda hefir. Sælir eru þeír, sem funndu unun í drottni — sem stunduðu það, er hans ríkjis var; sælir eru þeír, sem í drottni eru burt sofnaðir; þeir skulu eílíflega med honum lifa; þeir skulu halda því fram, sem á jörðunni var birjað — það skal í eilífðinni verða fullkomnað, sem í tímanum var ófullgjört. Ef þeír

höfðu unun af, að virða firir sjer guðs verk: þá skal þeim nú veitast, með alskjignum augum, að líta hans dásemdir — að undrast hans spekji — að mikla hans almætti — að lofa hans miskunsemi. Ef þeír höfðu unun af, að rannsaka vegu drottins við sonu jarðarinnar: þá skulu þeír nú berlega sjá það sem þeír skjildu ekkji firr — að þeír eru allir náð og trúfesti. Ef þeír höfðu unun af, að auðgast guðlegri spekji: þá skulu þeír ekkji framar þurfa að sjá so sem í speígli eður ráðgátu; þeír skulu hætta að tala eíns og börn, af því hálfverkjið er á enda. Ef þeír höfðu unun af, að hvíla hjarta sitt við þá elskuna guðs, sem gaf í dauðann sinn eíngjetinn son: þá skulu þeír sanna það, að blóði hans er út hellt til firirgjefníngar heimsins sinda — að hvur, sem á hann trúir, hefir eilíft líf. Ef þeír höfðu unun af, að helga guði vilja sinn — að framkvæma verk guðs, og glöddust við það, að ríkji hans eilíst, og vilji hans verði, á himni og jörðu: þá skal nú eíngjinn tálmi mæta þeim framar; því að úr guðs ríkji er öllum hneigslunum burtu vísað — allir hans óvinir eru honum undir fætur lagðir, so að guð er allt í öllu. Ef þeír í heíminum höfðu unun af ást og vináttu: þá skulu þeír njóta hennar fullkomlega; þeír skulu finna þá aptur, er þeír misstu, er þeír söknuðu, er þeír þráðu; hjörtu þeírra skulu gleðja sig, og fögnuð þeírra skal eíngjinn frá þeím taka. Ef þeír fundu unun í guði: þá skulu þeír nú sjá hann augliti til auglitis; og þeír skulu veíta honum lofgjörð og tilbeíðslu eílíflega; því hann hefir þeim sigurinn gjefið firir drottinn Jesúm Krist.

Já! grátið ekkji ifir mjer, meíga þeír, sem í drottni eru burt sofnaðir, seigja til hinna, er lifa; og það eru þau orðin, sem þessar líkbörur vildu hafa til vor mælt — þau orðin, er þær gjætu til vor sagt með fullum sanni; og um það verður oss hægast að sannfærast, ef vjer rennum augunum ifir æfi hins framliðna eins og hann hefir sjálfur

að mestu leíti frá heuni skjirt. (Ágripið, sem áður er prentað).

Á þessu ágripi sjáið þjer, elskanleígir! að meígi það telja gleðiefni firir manninn, að skjilja við heíminn, af því hann úr ánauðinni kom í frelsið — úr mótlætinu í gleðina: þá bar þessum framliðna ekkji sízt að fagna sínum viðskjilnaðardeígi; birði lífsins lá á honum með öllum þúnga sínum; hann varð að kjenna á flestum biturleík þess; hann átti í stríði við heíminn og sjálfann sig; og það má nærri gjeta, að so viðkvæmt hjarta — so viðkvæm samvizka, hafi af heíminum hlotið fleíri stundir sorgar enn gleði. Eíngjinn var ástundunarsamari í köllun sinni, eíngjinn iðjusamari, eíngjinn sparneítnari nje hófsamari, eíngjinn glaðari nje ánægðari með lítinn verð; og þó veíttist honum tæplega daglegt brauð, þann hlutann æfinnar, sem áhuginn er vanur að vera ákafastur — sem jafnvel hin skjinsamlega laungunin eptir hinu jarðneska er mest, so menn gjeti búist við hinum ókomnu tímunum. Að meðsköpuðu atgjörvi — að andans gáfum — tók hann flestum fram; að lærdómi var hann, að ætlun minni, öllum fremri, sem eíngaungu hafa átt að búa að kunnáttu þessa lanz. Hann var lipur og lítillátur, hógvær og hæverskur, siðprúður og guðhræddur — í flestum digðum var hann annarra firirmind, og þó var eíns og fáir tækju eptir honum — fáir kjinnu að meta hann — fáir sindu honum virðíngu að maklegleíkum. Ættíngjar hans snjeru við honum bakjinu; samlagsbræður hans rufu við hann fjelagsskap; og þær bænirnar voru lánga stund ekkji heírðar, er miðuðu til að auka virðíngu hans — að betra kjör hans. Mörgum þeírra vinanna, er hann reíndi trúasta á deígi neíðarinnar, var frá honum burtu kjippt — varð hann að sjá á bak á miðri vegferð sinni. Og þó að æfin irði sífelt fegri og fegri, eíns og vera bar — þó að kríngumstæðurnar loksins að mestu fullnægðu óskum hans — þó þeir irðu fleiri og fleiri,

sem þekktu hann, eins og hann var, sem virtu hann og elskuðu — þó hann feingji bætt lát hinna firri ástvina sinna með umsísluuarsamri og blíðri konu, og gjörvuglegum og ástúðlegum börnum — og gleðin í ifirbragði hans vottaði, betur enn allt annað, rósemina, sem bjó í sálu hans: þá hafði þó endurminníng hinna liðnu tímanna kjennt honum það nógsamlega, áður hann dó, að elska ekkji heiminn, og að sá einn, sem gjörir eptir guðs vilja, lifir að eilífu — að, eptir ástandi sálar hans, var honum betra, að leisast hjeðan, og vera með drottni.

Ef nokkrum ber að gleðjast, á banadægri sínu, ifir því, að dagsverkjinu er heiðurlega aflokjið, og pundinu vel varið — ifir því, að erviðistíminn er á enda, og hvíldin fer í hönd: þá ber það einnig honum. Hann þekkti einnig, að dírmæti lífsins var í því fólgjið, að verja lífinu, samkvæmt vilja gjafarans, öðrum til nota — sjálfum sjer til fullkomnunar — guði til dírðar. Kjör hans voru ekkji þannig, að hann gjætl ráðið úr hinum jarðnesku nauðsinjum allra þeirra, sem hann kjenndi í brjósti um — sem hans hjálparfúsa hönd gjirntist að aðstoða. Enn þó þarf ekkji leíngji að leíta þess, að minníng hans sje nefnd með þakklátsemi, firir þær velgjörðir, er hann út bitti. Það var eiginleg köllun hans, að auðga með því, er hann hafði mest að miðla af — að auðga með fjársjóðum andans; — og hvur hefir honum nokkuð að áfría í þessu efni? Var nokkur árvakrari — nokkur, er með meiri nákvæmni, meiri samvizkusemi, rækti skjildur köllunar sinnar? Það var hið eína, sem hann, skömmu firir andlátið, hjelt, að mætti sjer til gjildis telja: að hann hefði sjaldan verið iðjulans. Það væri örðugt, að nafngreína þá alla, er nutu huggunar af því orðinu, er hann fór með — sem af ræðum hans fundu sig knúða til digðar og guðhræðslu — sem elskuðu hann, so sem diggann, so sem kjærleiksfullann, so sem andríkann, kjennifóður. Komi þeir fram, hinir mörgu lærisveinar hans, sem að nutu hans ná-

kvæmrar tilsagnar og umgjeingni, er hann lagði í brjóstum þeirra undirstöðu kristilegrar þekkjíngar — þekkjíngar þess, sem gott er og nitsamlegt; komi þeír fram, hinir úngu, er hann síndi þann veiginn, er þeím bæri að gánga; komi þeír fram, hinir mörgu, er hann leíddi um fordiri mentanna inn á land sannleíkans; komi þeír, og vitni þeír móti honum, ef þeír gjeta. Gjeta þeír ásakað hann um nokkurt hirðuleisi? gjeta þeir sinjað honum ástar og virðingar? er þeím ekkji minníng hans dírmæt og blessuð? Eður þjer, sem hafið við þá kjinnst, er hann hafði mentað og frætt, seígjið til — voru ekkji flestir þeirra líkjir í því, að þeír höfðu öðlast so skjíra og greinilega þekkjíngu, sem hvur þeírra var fær um að þiggja — að þeír höfðu vanist siðlátu, reglubundnu, hógværu og stilltu dagfari — að þeír báru í hjarta sjer fölskvalausa guðhræðslu, er það vottar, að hinu sama góða sæði var niður sáð í brjóstum allra þeirra? Enn erviði hans nær einnig til þeírra, sem voru honum fjær — já, til þeírra, sem verða óbornir, þegar þessar hans jarðnesku leífar eru að jörðu orðnar, og eingjinn af lærisveínum hans gjetur framar talað. Hinir fögru sálmarnir, sem hann kvað, skulu bera vitni um hann — skulu sína hugarfar hans — skulu glæða í hjörtum margra manna sælufulla tilfinníng guðrækninnar — skulu varðveíta minníngu hans í blessan um ókomnar aldir. Þess vegna vegsamar hann guð, og þakkar guði — að hann ljeti honum lánga lífdaga — að hann blessaði og ávagstaði erviði hans — að hann leíddi hann so sjer við hönd, að hann varðveítti trúna og góða samvizku allt til enda.

Grátið því ekkji ástúðlegann mann og föður — þjer kona hans og þjer börn! So indisilega sem þjer gjörðuð honum lífdaga hans — so margri hriggð hans sem þjer, með elsku-atlotum, iðar, snjeruð í fögnuð: gat þó ekkji dvölin á jörðunni orðið honum so indæl, að ekkji fari betur um hann, þar sem hann nú er. Sam-

fagnið honum, að hann er frelstur frá óblíðu lífsins — að hann hefir tekjlð frið í stað óróa, hvíld í stað erviðis og þreítu. Samfagnið honum, að hann bar gjæfu til, að fullkomna með heíðri sitt ætlunar-verk — að guð veítti honum lángt líf, og hann varði því til að þjóna sínum herra, til að efla dírkun hans, til að vegsama nafn hans. Hann þakkar iður nú hinar mörgu gleðistundirnar, er þjer veíttuð honum — er þjer tóknð þátt í með honum; hann þakkar iður hinar mörgu sorgarstundirnar, er þjer báruð með honum — er þjer tókuð af herðum hans. Þessi meðvitund er nú umbun iðar, þar sem hann er iður horfinn, og þjer gjetið ekkji framar sínt honum neín elskuhót — þessi meðvitund skal margalda fögnuð iðar á næstu samfundum; og þjer skuluð vegsama drottins ráð, hvurt sem hann gjefur eður sviptir.

Einnig þjer, sem nú samstundis skuluð sjá hirði iðvarn borinn úr því húsi, þar sem þjer voruð vanir að heíra hann tala orð fræðíngarinnar og huggunarinnar— ifir honum skuluð þjer ekkji gráta, þó þjer aldreí sjáið hann framar á þessum stað; enn ifir iður skuluð þjer gráta, og börnum iðrum. Missir iðar er meíri, enn þjer fáið hann hæglega bættann. Jeg þikjist sannfærður um, að þau orðin, er þjer heírðuð hjer töluð, og þau samkjiuja orðin, er hjer voru súngjin, hafi ekkji ætíð komið tóm aptur — hafi ekkji orðið ávagstarlaus; þó að slíkra ávagsta, eíns og eðli þeirra er, gjæti ekkji so ört, og þeír þroskjist bezt í kjirþeí. Jeg þikjist sannfærður um, að það dæmið, sem þjer sáuð firir augum iðar dag hvurn, hafi örvað til eptirbreítni; enn um það gjet jeg borið, að börn iðar eru, fremur öllu öðru, vitni, sem ekkji verður rekjið, um rækt þess og kunnáttu, sem þau hefur frætt — eru fagurt vitni þess, hvílík heppni það er, að öðlast þvílíkann kjennifööður. Undirstöðunni, sem lögð er í sálu þeirra, fær ekkji tíminn haggað, nje stormar forlaganna brotið; hún ablar þeím heiðurs, er hana lagði; hún ablar

þeim príði og varanlegrar farsældar, sem hún er lögð í brjóst; biggjið því framveigis á þessa undirstöðu — haldið áfram þessari stefnunni; þá er helzt von, að missirinn verði iður bærilegur; þá heiðrið þjer minníngu hins framliðna eíns og vera ber — eíns og hann helzt vildi kjósa.

So farðu nú í drottins friði, hjartkjæri ættbróðir! þángað, sem er land þíns föðurs; ifir þjer skulum vjer ekkji gráta; því hriggðartími þinn er á enda. Þeír eru fram hjá farnir þeír tímarnir, er þú áttir að búa við skort og örbirgð, og lífið lagðist á þig af öllum þúnga, og ljet þig kjenna á öllum biturleík sínum. Þeír eru fram hjá farnir þeír tímarnir, er þú stóðst eínmana, er ættmenni þín vildu ekkji við þig kannast — þeír tímarnir, er þú varst lítilsvirtur, er fáir urðu til að aðstoða þig, fáir til að hugga þig í hörmúngunum. Þeír eru fram hjá farnir þeír tímarnir, er þú stóðst grátinn ifir leíðum ástvina þinna. Ifir þínu leíði standa nú þeír, sem þú hafðir kjærasta á jörðunni — kona þín og börn, vinir þínir og sóknarbörn — ekkji með neínni uppgjerðar-sorg, heldur til að heíðra minníngu þína, til að samfagna þjer: að þú hefir þá aptur fundið, er heím voru kallaðir á undan þjer. Vjer samfögnum þjer, að þú hefir hlotið værann blund, eptir so fagurt dagsverk — að þú ert frelstur frá skamdeígis-mirkrunum, er þú skjín nú sem sól í ríkji þíns föðurs. Þú ert ekkji dauður á meðal vor; minníng þín lifir; hún lifir hjá vinum þínum; hún lifir hjá þínum mörgu lærisveínum. Já! meðan landið er biggt, skulu 'rit þín vitna um hjarta þitt og snilld þína; kvöld og morgna skulu lanzins sinir og dætur minnast þín; með þínum orðum skulu þeir á veturna fela sig guði á vald, og á vorin síngja lof skaparans; með þínum orðum skulu þeír síngja um dásemdir sköpunarinnar, og á hátíðunum miklu um fæðíngu lausnarans, pínu hans og upprisu; firir þín orð skulu þeír finna fegurð og sælu guðhræzlunnar; og við útför þína skulu

þau ljóðin hljóma, er þú saungst um dauðann og eilífð-
ina. Allt er það auðkjennilegt, sem þín hönd hefir um
fjallað — til vitnis um hvað lángt þú barst af samöldrum
þínum. Þegar jeg first kjinntist við þig, varstu aptur
orðinn barn; það var auðsjeð, að líkaminn þraungvaði
lífi sálarinnar; enn aldrei hefir þá neinn firir mín augu
borið, sem þjer væri líkur, þegar eitthvað bar í tal, sem
við vísindin átti skjildt — andans fjör lipti þá líkamanum
so frá jörðunni, eins og hann ætlaði að fljúga upp í
himininn. Nú eru brostin fjötur líkamans — hið jarð-
neska er þjer ekkji framar til þíngsla. Svalaðu nú þínum
vísdómsþorsta á uppsprettu sannleikans; því skjilunni
er frá þjer lipt, sem hilur guðs dírð firir sjónum jarð-
arinnar barna. Með augunum skaltu nú líta það, sem þú
í andanum sást — nú skaltu öðlast það, er hjarta þitt
þráði. Gjörðir þínar hefir þú með þjer, eins og menjagrip
af fjarlægu landi, so að ekkjert skorti á sælu þína — so
að þú síngjir guði lofgjörð, firir allt er hann hefir til þín
gjört, og vegsamir nafn hans um aldir alda. —

Lofaður vertu, ó guð! firir hvurn sem þú kallar úr
þessum heimi til dírðar þinnar, eptir digðugt og guðrækj-
ilegt líf. Kjenndu oss að lifa so, að vjer þurfum ekkji
að kvíða dauða vorum. Innrættu það skjilníngji vorum
og hjarta, að eínúngjis hið gjörvalla líf er hæfilegur
undirbuníngur undir dauðann. Láttu dæmi þeirra sem
frá oss fara, áminna oss um, að slá ekkji þessum undir-
búníngji á frest; láttu dæmi þeirra, er strítt hafa og
sigrinum haldið, hvetja oss til eptirbreitni; og leiddu
oss — þegar þjer þikjir vjer nógu reindir, þegar þjer þik-
jir vjer hæfilega undir búnir — inn í það ríkji, sem þú
hefir þínum börnum firirbúið frá upphafi veraldar. Amen.

